allar þær Fyrermyndaner gamla Testamentesins sem uppa hañ hlýddu/ so sem að var Fyrermyndan Josephs/Gen. 41. Cap. Eyrormsins/Num. 21. Paaskalambs ins/Exod. 2. Og þeirrar raudu Kyrenar/Num. 19. Og þetta allt so krøptug lega z skiłmerkelega wtþydt uppa syna Pijnu z Dauda/ad eins Syndugs Mañs Hiarta hefur þar vid mætt þa eina nakvæma Huggun z Hugsvølun/ so sem rada mä af Ordum þessara tveggia Læresveina/ hvørier ed sogdu/ BRAXXX ecke ockar Hiarta i ockur/þa hañ talade vid ockur a Veigenum? etc.

Og þeir koomu ad nalgast Kauptwned þad þeir geingu til/ og hañ liet þa sem villde hañ leingra ganga. So plagar Herrañ Christur ad giøra stundū/ Hañ læst ecke vilia vera hia Børnum synum. So giørde hañ vid Jacob Forfødur þa hañ glymde vid hañ/Gen. 32. Eirniñ vid syna Lærесveina þa hañ kom til þeirra a Stoonū z liet sem hañ villde ganga fram hia þeim/Marc. 6. Eñ hvad eigum vier ad giøra þa so til fellur? Vier skulum giøra eins z Læresveinarner giørdu/hvørier ed neiddu hañ z sogdu: VERtu Hia Oss HErra/ þviad Kvøllda tekur og a Dageñ lijdur. Hañ gieck þa iñ og var Hia Þeim. Hier af sieum vier hvad krøptugur z øflugur Hlutur ad Bænin er þa hun wtgeingur af eins Christens Mañs audmiuku z Jdrandе Hiarta. Vm Ezechiam Kong lesū vier 4 añare Book Kongaña 20. Cap. Ad þa hañ lä daud sjwkur z ætte ad skilia vid þetta Lijf/ þa hafe hañ beded til Guds og fieinged þ m3 sine Bæn/ad hans Lijfdagar leingduſt so ad Skuggiñ a hans Sigurverke gieck aptur til baka um tyu Lijnur.

Alvarleg Bæn og Jdran Manassis Kongs / þegar hañ lä samañreyrdur z Drooma i Fangelseñu i Babylon/ olleþvi ad hañ vard til siñar fyrre konungleg rar Tignar aptr upphafeñ. Ja/Bæneñ er so krøptug ad hun bindr sialfañ Gud/ z so sem hellдur hønū z hamlar/so hañ wthellir ecke ølldungis siñe Reide yfer oss/ z straffar oss ecke epter vorre Forþienañ/ so sem þ mä liooslega sia af Dæme Mosis/ þvi þa hañ bad Gud fordū þ Israels Folke/ þa talade Gud so til hans/ þa hañ var eñ nu ad bidia/z sagde: Slepptu mier Moses/so ad eg læte myna Reide upptend rast yfer þm/ so hun uppete þa/Exod. 32. Hier er eins ad heyra z Moses hafe halldeд almattugum Gude med siñe Bæn. Eñ sieum til/epter Almætte synu þa hefde Gud vel kuñad ad ækta Bæn Mosis einskis / z læta Grimd siñar Reide af mä Folked/eñ epter siñe mykellre Myskun þa liet Gud sier hallda/z gaf sig so sem fangeñ þ audmiukre Bæn Mosis. Eirneñ lesū vier um Forfødureñ Jacob/ Gen. B. 32. Ad hañ hafe ecke villad sleppa Syne Guds vid hvørn hañ glymde/fyrre eñ hañ blessade hañ ađur. Eñ ecke a þta so ad skiliast / ad Jacob hafe giɛtad hallded Guds Syne/med lijkamlegū Styrk synū edr Afle/ heldur hielt hañ hm med Styrk z Afle Trwareñar/so sem Hoseas Spamadur seiger/12. Ad hañ hafe glymt vid Eingeliñ og Sigrad hañ/ þvi hañ hafe beded med Grætande Tarum. Med þvi þa/ ad Bæniñ er soddañ eirn Krøptugur z Oflugur Hlutur ad sialfur Gud

giefur sig so sem Fangiñ fyrer heñe. Skylldum vier þa ecke vera tvýser til ad bidia hañ Ølmaltanlega/af hiarta med þessum tveimur læresveinum/ og seigia: Æ/Vertu hia oss hiartans Herra þt Kvøllda teker ⁊ a Dageñ lijdur. Pad mæ vel seigiast / Ad þar take til ad Kvøllda i øllum stiettum nu a þessū sijdustu Heimsins Tijmū. Þar Kvølldar i Søfnudenū og þeirre Andlegu Stietteñe/ þvi ad allvijda i Løndum utslocknar (þvi midur) þad skiæra Lioos Trwarenar og sa hreine Evangelij Lærdoomur/eñ/uppkoma aptur Innslegar villur og Rangar Kieñingar/So Spaadoomur Herrans Christi tekur nu til ad rætast/þar hann spaade fyrer undrum þeim/sem skie mundu fyrer þañ sijdasta dag/æ þeñañ hætt seigiande ; Þar munu uppryisa Falschristar og Falsspameñ / hverier ad giøra munu stoor Tækn ⁊ Undur/ so ad i Villu munu leidast ( ef skie mætte ) eirneñ Utvalder/ Matth. 24.

Þar tekur til ad Kvøllda i þeirre Verallðlegu Stietteñe/ þvi hvad er nu tijdara ad heyra/eñ þar ⁊ þar sie Strijd/ Ørustur og Bloodsuthellingar? Ja/þeir sem Løgunum eiga ad framfylgia / vijña þeir þad ecke stundum fyrer audvirdelega Asynd og veslingskap þeirra sem Maaled eiga ad sækia/ stundum þ Hille Rijkis Maña/Mutur og Gafur/ad halla Riette þess hiñs Fatæka? so þar er so sem ad komed (sie þad ecke Allareidu komed) ad lijtel Riettvijse/ Jøfnudur ⁊ gott Stycke er ad fiña hia sumum hverium Yfervallds Persoonum/hvad Gud virdest ad bæta/ og giefa þeim Leidriettingu / ad giøra ⁊ sia sig ad i Tijma/ sem i soddañ mæta sig missa.

Þar Kvølldar ⁊ eirneñ i Hwsstiornar Stietteñe/marger lijda Skort a þvi sē þeir eiga ad hafa sier ⁊ sijnum til Atviñu/ einkum þa þeir eiga ad kaupa þ til af ødrum sē þa naudsyniar um/þa fær þeir þ. ecke med ødru moote/eñ þeir giefe þar þ tveñ eda Þreñ Verdeñ/ eg vil ecke tala um Ohlijdne Barnaña/Otrwleika Hiwaña ⁊ añad þvi umlijkt/hvǝrneñ þ tilgange/þvi þ er hverium Mañe lioosara eñ þar þurfe mørgum Ordum til ad eida. Med þvi ad vier vitum nu i Raun ⁊ Sañleika/ad allt þetta er so a sig komed sē sagt er; Liggur oss þa ecke stoor Magt a ad vier i øllum Stiettum bidium Gud i Jesu Nafne / ad hū vilie ecke svipta oss sijnu H. Orde/sinu Naad ⁊ Blessan a medañ hū lijdur oss i þessum Taaraña ⁊ Eymdaña Dal / seigiande med Læresveinunum: **Vertu hia oss Herra/ þviad Kvøllda tekur/ ⁊ a Dageñ lijdur.** Pad er um þad fyrra.

## Um þad añad.

Nu er epter med einu Orde ad miñast a þ añad/ sem er/ Hvad bored hafe til i Giestaherbergenu. Hier um talar so Guspiallamadurinn. OG Pad Skiede **þa hañ sat med þeim til Bords/ ad hañ took Brauded/ Blessade þad og braut / og riette ad þeim.** Hier kiemr fram eñ nu ad nyiu Krafkur Banarenar. Strax heyrdū vier sagt/ad þa þesser Læresveinar høfdu neidt

z beded Jesum ad vera hia sier/ þa veitte hñ ecke einungis þeim þa Boon/ helldur var hñ z eirniñ til Bords med þeim. Þad er halldiñ/ og er i Raun og Sañleika stoor Virding þa eirn mykelshattar Høfþinge lætur so lijted ad vilia þig gia lijteñ Svaladruck hia einum umkomulausum Mañe. Eñ længtum meire Æra og Virding veitest þessum tveimur Herrans Christi Lærsveinum. Þar byrer sie so vier vilium hafa Jesum til Bords hia oss/ og hñ blesse oss og vort Daglegt Braud/ þa giætum ad oss i Herrans Nafne ad vier gleymum ecke ad bidia hñ dagliga Dags um Mad og Blessan sijna/ Hvad ef vier trwlega og af Hiarta giørum/ þa mun vissulega a oss framkoma Spaadoomur Davids/ þar hñ seiger: Matlægur er Drottenñ øllum þeim sem hñ ákalla/ Ja/øllum þeim sem hñ i Anda og Sañleika ákalla/ Psalm. 145. Og sem vier nu so giørum/ þa verū visser þar uppa ad hñ mun med sijnum Blessudu og Kraptarijku Høndum rietta ad oss vort Daglegt Braud og blessa þad þo vier siaum hñ ecke persoonulega sitiende hia oss til Bords. Þar er margur so fævijs og heimskur/ ad hñ meinar ad allt þad hñ hefur/ þa sie þad ad þacka sijnum Handafla/ Vtvegun z goodre Fyrersioon/ eñ þar er langt fra. Añad seiger oss Postuliñ Pall þar hañ so talar: Hvad hefur þu Madur þad þu hafer ecke þeiged og meddeeked? Eñ fyrst þu hefur þad meddeeked/ hvad hroosar þu þier þa? J fyrra Sendebrieffe til Cor. 4. Cap. Þesse Ord Postulans kieñ a oss ad afleggia alla Stærelæte/ Hofmood og Drambseme.

Og þa opnuduſt þeirra Augu seiger Textiñ so ad þeir þeckłu hañ. etc. O hvad sæler eru þeir sem riettelega þeckia Jesum Endurlausnara siñ/ þvi þad er þad eilijfa Lyfed seiger hiñ sæle Johañes/ 17. Cap. Ad þeir þecke þig sañañ Gud z þañ þu sender Jesum Christum. Þesser tveir Emaus Reisu Meñ saau ecke Herrañ Christum utañ i añarlegre Myndo/so leinge sem þeir voru a Veigenū/so sem vier høfum heyrt ádur ꝥ sagt/Eñ sem þeir komu i Giestaherberged/ þa uppluktust þid fyrsta þeirra Augu so ad þeir þecktu hñ. Eins-skiedur þad fyrer oss so leinge sem vier erum a þessare vorre Vegferdar Reisu hier i Lyfe/ þa kuñum vier ecke ad siaa vorn Endurlausnara Jesum/ utañ so sem i gdrum Speigle og Raadgatu/ Eñ nær vier kæmum ad komast iñ i þad Himneska Giestaherberged sem þar er uppe/ og sitium þar til Bords med sialfum Gude/ þa munu vor Augu upplukast/ þa munum vier fullkomlega þeckia hñ og siaa hañ Auglitе til Auglitis/ 1. Cor. 13. Cap.

Þegar nu þesser tveir Lærsveinar þeckia Christum/ þa seiger Gudspiallamañ/durelñ ad hñ hafe horfed fra þra Augum: Eñ þeir sogdu sijn a mille/ brañ ecke ockar Hiarta i ockur/ þa hañ talade vid ockur a Veigenum/ z opnade fyrer ockur Ritningarnar? Hier siaum vier / hvørn Avøxt ad Guds Ord barer hia øllum riettrwudum Guds Børnum/ sm er/ ad hvør hellst sm heyrer

 vel

vel ⁊ rækelega Guds Guddoomlega Ord/ i þeim sama upptendrast ⁊ kveikest eitt andlegur Elldur/ so ad Hiartad tekur til ad breña af Kiærleika til Guds ⁊ hans H. Ords. Eñ hvør hellst sem ecke hefur til þvilijks Bruna i synu Hiarta / þa hañ er under Guds Orda Heyrn/ sa hefur ad sønu Eyru ⁊ heyrer þo ecke med þm/ hañ hefur Hiarta/ eñ ecke til ad medtaka Guds Ord riettelega: Þar ꝥ verdum vier hier aminter/ ad vier heyrum Guds Ord med stærstu Audmyke og Virdingu vel og rækelega/ og bevørum ꝥ sydañ i goodu og sidsømu Hiarta. Hvar til oss hialpe Gud Fader/ i Nafne syns sæta Sonar Jesu Christi/ hvørium med Fødurnum og þeim verduga H. Anda/ sie Lof/ Dyrd ⁊ Þackargiørd nu hiedañ i fra og ad Eilijfu/ Amen.

# A Þridia Dag Paaska.

## Evangelium / Luc. 24. Cap.

J þañ Tijma. Þa Læresveinarner voru eñ nu ad tala um þetta/ stie Jesus midt i mille þeirra/ ⁊ sagde til þeirra. Fridur sie med ydur. Eñ þeir skielfdust ⁊ urdu hrædder/ og meintu ad þeir sæe Anda nockurn. Og hañ sagde til þeirra. Hvar fyrer skielfist þier/ og þvi koma slijker Þankar i ydar Hiortu? Siaed mijnar Hendur og mijnar Fætur/ ad eg em þetta sialfur. Þreifed a mier ⁊ skodad/ þviad Ande hefur ei Holld nie Bein/ so sem þier siaed mig hafa. Og þa hañ sagde þetta/ sijnde hañ þeim Hendur og Fætur. Og er þeir trwdu eñecke fyrer Fagnadar saker/ ⁊ undrande ꝥ/ Þa sagde hañ til þeirra. Hafed þier nockud Matarlegt? Og þeir logdu fyrer hañ Stycke af steiktum Fiske/ og Hunangs Seim/ Og hañ took þad og aat fyrer þeirra Augum. Og hañ sagde til þeirra/ Þetta eru þau Ord/ hvør eg talade til ydar/ þa eg var eñ nu hia ydur/ þvi ꝥ hlaut allt ad fullkomnast sem af mier er skrifad i Moysis Logmaale/ og i Spaamañaña Bookum og Psalmum. Þa opnade hañ þeirra Hugskot/ so ad þeir skildu Ritningarnar/ og sagde til þeirra. So er þad skrifad/ og so byriade Christo ad lijda og upp ad rijsa a þridia Deige fra Daudum/ og predikast laata i sijnu Nafne/ Jdran og Fyrergiefning Syndaña a medal allra Þioda/ upphefiande i Jerusalem/ Og þier erud Vottar allra þessara Hluta. Ecce/

# Exordium.

Vier lesum i Doomara Bookareñar 16. Cap. Ad þa Philistei villdu hafa umkringt/ þangad og i helsteiged hañ sterka og øfluga Kappa Samson i Borgeñe Gaza/ þa hafe hñ staded upp um Midnætte og teked bædar Hurdernar a Stadarportenu med Dyrastolpunum & lagt a synar Herdar og bored þær efst uppa Fialled fyrer Hebron. Nu vitum vier ad Samson var eirn Fyrermyndan uppa vorn Frelsara Jesum Christum/ einkanlega so myked siñ vidvijk hñs sigursælu Vpprisu fra Daudum. Þar fyrer so sem þ/ad Samson var umseteñ uppa Lyfed af þeim Philisteis/ So var & i sama mata vor Drotteñ Jesus ecke ad eins umseteñ & fangadur af synu eigiñ Folke Gydinga Lyd/heldur & eirneñ deyddur & i Grøfena nidurlagdur(so sem vier helldum kient a Føstudageñ langa) þetta var Gydingum eirn stoor Glede/ þvi þeir meintu ad þar hñ være einusiñe dauñ/þa munde hañ ecke upp aptur rysa / so sem David seiger/ Psalm. 41. Eñ giætum ad/vier heyrdum øñur langtum gledelegre og huggunarsamlegre Tydende a Paska Dageñ/þar Eingelleñ talade so & sagde: Hañ er uppriseñ & er ecke hier. Ja/ hñ hefur a þeim blessada Vpprisu Deige synum brotest so sterklega i giegnum Daudans Port / ad hñ hefur under eins ad velle lagt/þau sterku Helvijtaña Port / & frelsad syna Herteknu wr Gryfiuñe/ þar eckert Vatn iñe er/Zach. 9. Þesse Velgiørningur vors blessada Sigurvegara Jesu Christi/ er langtum meire & stærre heldur eñ Frelse Israels Folks var fordum wr þeim Egyptska Prældoome. Og so sem þ/ad Gud Drotteñ skipade/ ad Israels Folk skylde hallda eina Stoorhætyd ærlega i Miñing syns Frelsis/so sem lesa ma i Exod. B. 12. So ber oss nu myklu framar alldrei ad gleyma a medañ vier lifum/ þeim stooru Velgiørningum sem Herrañ Christur hefur oss med siños sigursælu Vpprisu giefed & afrekad. Þar fyrer/ med þvi ad vier høfum hingad til med stoorre Hiartasorg orded ad heyra talad um hñs beysku Pijnu & Dauda a Krossenum/ so skulum vier nu aptur hiartanlega glediast/ & med Fagnade syngia af Sigrenum i Tialldbwdum Riettferdugra/Psalm. 118. Og seigia :/ Vetureñ er umlideñ/ Regned er af & i burtu / af Lofkvæde Salomonis 2. Cap. Vor Drotteñ Jesus Christus er af Dauda upp aptur riseñ/ og talar vingiarnlega til vor/ seigiande: Jeg life/þier skulud & eirneñ lifa / hia Joh. 14.

Og villium vier ad þessu siñe æn lengra Iñgangs / taka oss tvær Smægreiner fyrer Hendur ad yfervega wt af þessu H. Evangelio hid stuttlegasta. Hin fyrre skal vera/hvørneñ & med hvørium Bevijsingum ad Herrañ Christur hafe openberad & bevijsad sig ad vera sañarlega fra Daudum uppriseñ. Añur / hvørier vered hafe þeir sierlegustu Paska Velgiørningar / sem vor blessade Endurlausnare færde synum Læresveinum med sier/ & færer eñ nu i Dag øllum þeim sem hñ elska. Gud giefe ad vier mættum fra yfervega/ hñs heilagasta Nafne til Lofs/ eñ oss til Sælar Gagns i Jesu Nafne/ Amen.

# Fyrre Greineñ.

ÞAd er kuñugt/ad Herrañ Christur openberade sig ecke øllum synum Astvinum i señ edur sama siñ/ helldur giørde hñ blessadur þad smamsamañ. Þvi lyka so sem þ/ vier siaum ad þa Sooleñ upprēñur a Morgnana / þa skiedur þad ecke strax i einu ad hun syner sig med fullum Lioома/ helldur fara undañ Sooluñe / fyrst Lioosaskipteñ/þar epter kiemur Soolar geisleñ a Fiøllunum/eñ allra sydast reñur hun sialf upp med fullum Liooma / og wtstrialar synum føgru Geyslum um alla verølldena. Alyka gieck ⁊ til um Jesum Riettlætis Soolena vora/þegar hñ uppreis af Dauda/þa liet hñ ecke strax sia sig i fyrstu þa Kviñurnar komu til Grafareñar / helldur openberade hñ Vpprisu syna / fyrst þar med/ad hñ liet Kviñurnar fiña Grøfena tooma / Og þesse Openberan Vpprisuñar Christi var so til ad lykia/so sem hefde hun vered su fyrsta Byrta sm̃ fer undañ Soolarlioo-manum edur Vpprunanum / þar eptera kiemur muñleg Vottan Eingelsins/ sem seiger ad Christur sie uppriseñ/⁊ su Openberan lykest vid þañ fagra Soolar Roda. Sydañ syner Jesus sig sialfañ uppriseñ/ fyrst Kviñunum/þar eptera Lærisveinunum/ talar vid þa/lætur þa þreifa a sier / neiter Matar med þm̃. Hvad allt er so til ad reikna/sm̃ skiærer Vppruna Geyslar Riettlætis Soolareñar vors Drottens Jesu Christi. Eñ so myked sem vidvykur Bevysingum þeim sem Herrañ Christur framsetur i þessa Dags Gudspialle þar uppa / ad hñ sie sañarlega fra Daudum upp aptur riseñ/þa skulum vier vita/ ad þær eru fierdeilis þriar.

Hin fyrsta er su / ad hñ kiemur sialfur persoonulega iñ til Lærisveinaña i Hwsed þar þeir voru iñe/⁊ talar vid þa. Ecke giører Endurlausnareñ vor Lærisveinunum synum Bod med ødrum / ⁊ lætur seigia þm̃ ad hñ sie uppriseñ / so sem Eingelleñ skipade Kviñunum ad seigia sem komu til Grafareñar hñs / helldur kiemur hñ hier sialfur i eigeñ Persoonu / med Ønd ⁊ forklærudum Lykama iñ til þeirra. Eñ Tymeñ a hvøriumhñ kom/ var Kvølldtyme / og þo helldur i seirna lage/ epter þvi sem Johañes Gudspiallzmadur vottar/ 20. Cap.

Hier af lærum vier/hvør ad sie Vysa ⁊ Vane Herrañs Christi / sem er Ad koma helldst til siña Barna þegar Kvølld Mootlætingaña ⁊ Daudans ad Høndum kiemur/⁊ vera þm̃ þa nalægur ⁊ syna þeim syn Sär/so þau meige i þeim Huggun hafa og sætlega i bureu sofna.

Adra Bevysingena til siñar sigursælu Vpprisu fra Daudum / framsetur hañ hier i þvi/ ad hñ syner Lærisveinunum synar Hendur ⁊ Fætur / ⁊ skipar þm̃ ad þreifa a sier. Hvørneñ kuñe nu Endurlausnareñ vor auglioosgar ad bevysa þad hñ være sañarlega uppriseñ/eñ med þessum Hætte? Vissulega hafa þeir veik-trwudu ⁊ sturludu Jesu Lærisveinar mätt þar eina oseigianlega mykla Huggun ⁊ Glede þar af/þa þeir feingu so ad sia ⁊ þreifa a synum Herra. Hvad ⁊ eirneñ rada ma af þessum Textans Ordum / þar Gudspiallzmadureñ seiger / ad þeir hafe ecke trwad fyrer Fagnadar Saker: Eñ laangtum meire Føgnud ⁊ Glede mu-

num

num vier þo þar sydar meir i eilijfu Lijfe / þa vier slaum Jesum so sem hn̄ er / Auglite til Auglitis. Ja/þad mun vera þvilijk Glede / hvilijka ad aldrei hefur Auga sied/og aldrei Eyra heyrt / ⁊ aldrei hefur i nockurs Mans Hiarta komed.

Þar fyrer (mijn̄ Brooder ⁊ Syster) nær sem helldst Diøfullen̄ freistar þijn/ ⁊ setur þier fyrer Siooner Synder þijnar/so seigiande: Skoda þu Hendur þijnar/ og hugleid þu/hvad myked Jllt þu hefur med þeim giørt. Giættu ad Footum þijnum/hvørsu þu hefur geinged a Vegum mijnum ⁊ þeirra Oguđlegu/hvørja eg hefe ætlad mier/⁊ hlauped wr einne Synd i adra/Og meintu þ aldrei ad þu munner kun̄a Sæluholpen̄ ad verda. Þegar nu Diøfullen̄ a þen̄an̄ Hætt freistar eins ⁊ an̄ars/ þa er gott ad kun̄a ad svara hønum/ ⁊ seigia: Nei Sathan/ ecke so/ þessum þijnum Rædum vil eg ecke fylgia / þvi þu vilt koma mier i Orvænting/ helldur veit eg an̄ad betra Rad hvad eg skal giøra. Eg vil giæta ad Høndum ⁊ Footum mijns Endurlausnara/⁊ skoda med hn̄s Lærisveinum þau blessudu Saaren̄ sem hn̄ ber a sijnum allra heilagasta Lijkama mijn̄a vegna/ þad er mier længtum heilnæmara en̄ ad fylgia þijnum Rædum/ þvi eg veit ⁊ trwe fullkomlega/ ad þ er satt ⁊ obrygdanlegt Guds Ord/sm̄ þar stendur hia Esaiam Spaman̄e/ 53. Cap. Ad Jesus er mijn̄a vegna særdur ⁊ lemstradur/⁊ Hegningen̄ hefur a hønum leiged/ uppa þ eg feinge Friden̄.

Þridia og sijdasta Bevijsingen̄ hn̄s Upprisu var su / Ad þa Lærisveinarner trwdu en̄ ecke fyrer Fagnadar Saker / undrandest þ/ þa seiger Gud spiallamadurin̄/ad hn̄ hafe mællt til Matar/ ⁊ sm̄ hn̄ var framboren̄/ þa hafe hn̄ teked hn̄ ⁊ eted fyrer þeirra Augum.

Hier kan̄ einhvør ad spyrja: Hafde Herran̄ Christur nockud Þørf fyrer þad ad neyta Matar/epter þ hn̄ var upp aptur risen̄ fra Dauda? Nei /aungvan̄veigen̄ þurfte hn̄ þess vid sialfs sijns vegna: helldur neytte hn̄ hier Matar i Augsyn sijn̄a Lærisveina/so þeir tryde þss betr ⁊ stadfastlegar/ad hn̄ være san̄arlega upprisen̄/þvi þar kan̄ eingen̄ Bevijsing vissare ad vera þar til/ ad ein Man̄eskia sie mz Lijfe en̄ su/ þa hun getur teked Fæduna til sijn.

Þegar Jesus uppvakte af Dauda Dootter Jairi / þa urdu þeir sm̄ nælæger voru omætanlega Felmsfuller/ af þvi ad þeir meintu ad omøgulegt munde vera upp fra þvi eirn være andadur/ad hn̄ kyn̄e þa aptur lifande ad verda / þar fyrer skipade Herran̄ þm̄ ad gefa hen̄e ad eta/ so þeir skylldu vera visser þar uppa/ ad hun være san̄arlega aptur lifande orden̄/ Marc. 5.

Sama lesum vier ⁊ so ad skied hafe / þegar Jesus uppvakte Lazarum / þa liet han̄ hn̄ strax þar epter sitja til Bords hia sier i Bethania / Joh. 12. Cap.

Hier af lærum vier þ / ad forklarader Lijkamer Guds Barna geta ad søn̄u teked Fædu til sijn/epter sijna Upprisu a sijdasta Deige/ en̄ þ þo ecke fyrer Hungurs edur an̄ara Naudsynia Saker/ eins ⁊ i þessu Lijfe skiedur. Og þra eru nu þær þriar Bevijsingar sm̄ Herran̄ Christur framsetur fyrer sijna Lærisveina/med hvørium hn̄ styrker þeirra Trw / þ hn̄ sie san̄arlega fra Daudum upp aptur risen̄.

# Auñur Greinen.

NV epterfylger med einu Orde ad miñast a Velgiørninga þa, sem Herrann Christur veitte synum Læresveinū epter syna Sigursælu Upprisu fra Daudum/ & veiter eñ nu i Dag øllum þeim sem hñ elska og a hñ treysta.

Hiñ fyrste er sa / Ad hñ virder þa siñar Nærveru & stendur i Mided hia þm. Þetta eru gledeleg Umskipte/ þvi fyrer þremur Døgum var Christur Andvana af Krossenum ofañtekeñ og nidurlagdur i Grøfena/ eñ nu stendur hñ hier midt a millum siña Læresveina alyka so sem eirn goodur Strydsherra stendur i bland siña Strydsmaña og hroosar Sigre yfer synum Ovinum. Eñ Ordsaker hvar fyrer Herrañ Christur stood heldur i Mided hia synum Læresveinū eñ añarstadar/ eru þessar.

Fyrst/ Ad hñ audsynde þar med hvørt ad sitt Embætte være/ sem er ad vera Medalgaungu Madur millum Guds og vor Maña/ 1. Tim. 2. Cap. Hañ villde og eirniñ uppfylla hier med Figuru Aaronis/ hvør ed stood midt i millum þeirra Daudu & Lifendu/ So sem lesa niær/ Num: B: 16. Cap: Med þvi vier høfum soddañ eirn Medalgangara/ sem er bæde Gud og Madur/ þa þurfū vier ecke i nockurn mata ad efa hñs Hiartalag sem hañ hefur til vor. Þar næst stood Herrañ Christur i Mided hia synum Læresveinum/ ad hñ audsynde þar m. ad aller þeir Velgiørningar sem hñ hafde oss afrekad med siñe Pynu/ Dauda og Sigursællre Upprisu/ heyrde jafnt ølluñ til. Petur Postule hafde ad søñu meir og framar syndgad eñ hiner adrer Postularner/ þvi hñ yfergaf ecke einungis (eins & þeir) siñ Herra i Grasgardenū/ heldur & eirniñ afneytade hñ hønū & so i þrimur reisur i Hwsi Caiphæ. Sami sem ædur giører vor liwfe Lausnare Jesus/ øngvañ Greinarmun a mille hñs og añara siña Læresveina/ þvi hañ stendur hier midt i Mided hia þeim/ og er ecke Petre fiarlægare eñ hinum ødrum sem miña høfdu syndgad. Þar fyrer sie so ad Samvitska vor seige oss ad vier høfum myklu meir og framar syndgad eñ adrer heilager Guds Meñ/ þa huggum oss þar vid/ ad vier erum þo aller eitt i Christo vorum Endurlausnara fyrer Trwna/ Gal. 3.

Þad er skrifad um þañ gooda Guds Mañ og Læreføddur Lutherum/ ad hann hafe optlega plagad ad seigia: Þad veit eg fyrer vyst/ ad eg er ecke jafnheilagur sem Maria/ Pall og adrer fleire heilager. Eñ þar a moot veit eg og so þ/ ad eg hefe jafnañ Riett til Christi Velgiørninga/ so siñ nockurn tyma fau Maria/ Pall og hiner adrer heilager.

J þridia lage villde Herrañ Christur standa i Mided hia synum Læresveinum / uppa þ ad hñs Loford skylde ecke bregdast/ heldur stadt og stødugt blyfa. Vær lesum hia Matth: 18. Ad Drottiñ vor Jesus hafe lofad/ Ad hvar helldst sem tveir eda þryr være samañkomner i synu Nafne/ þar villde hñ vera midt a mille þeirra. Þetta sitt Loford ender hñ hier vid syna Læresveina/ & sama mun

hñ

hñ og so vid oss giøra. Þvíad so sem þad ad Læresveinarner voru hier a allar Sijdur umkringder/ eñ Herrañ Christur vardveitte þa þo dasamlega/ standande i Midiu hia þeim. Eins mun þad og so skie/ ad þegar vier røtum i nockurs-konar Þreingingar/ Ofsookner edur Hørmungar þessa Heims/ so vier siaum øngvañ Veg til þar fra ad komast/ þa mun Christur vera i Midiu hia oss / og bæde vilia og gieta vardveitt oss.

Dæme hier uppa høfum vier a Israels Folke / þegar Pharao veitte þvi Epterfør/ þa sa þad sier eckert Undanfære/ þvi fyrer framañ þad var þad mykla og breida Siafarhaf/ eñ a badar Sijdur ofur haa Fiøll/ A Bake þess var oflijande Her sem sookte epter ad yfirfara þvi/ og sem Foolked var so Hræskasamlega stadt/ þa liet Gud Drottiñ Eingel siñ (sem þangad til hafde geinged undañ Israels Her) fara til baka vid þa/ so hñ stood i millum Herlids þeirra Egyptsku og Israels Hers/ og drekte so Pharaone med allre siñe Fylgd og Føruneyte i Sioonum/ eñ leidde Israels Folk þurrum Footum þar i giegnum/ so sem þar um maa lesa/ Exod: B: 14. Sama giører Herrañ Christur eñ nu i Dag/ Hañ stendur midt a mille vor og vorra Ovina / og hamlar þeim so ad þeir gieta ecke giørt oss nockurt Mein. Ja/ Vier erum hier i Heime eins til ad lijkia so sem Saudir a medal Ulfa/ Matth. 10. Eñ Jesus sa goode Hirderiñ giæter þessara siña Saudakynda/ ad sa Helvijtske Ulfur Diøfulliñ megnar eckert a moote oss/ og kañ oss øngvañ Skada ad giøra. Samt sem ædur skulum vier vita/ Ad sie so vier villum ad Jesus stande i Midiu hia oss/ so sem hñ stood hier hia sijnum Læresveinum/ þa verdum vier ad hafa nockrar þær Dygder og Mañkoste til ad bera sem Læresveinarner høfdu/ hvøriar vier villum hier af þeim læra.

Fyrsta Dygd Læresveinaña var su/ ad þeir voru ecke Stollter og Drambsamer þegar Christur kom til þra/ helldur audmiuker og lijtelater/ verkande sijna Saalu-hialp med Ugg og Otta/ epter þvi sem Postuliñ aminner til Philipp: 2. C. Sama eigum vier ad giøra/ þvi so seiger hñ heilage David i Psalmenum 51. Þad Offred sem Gude þocknast/ er Harmþrungiñ Ande/ Eitt Harmþrunged og Sundurkramed Hiarta þa muntu Gud ecke fyrerlijta. Item/ seiger Postuleñ Petur 1. Pistle 5. Cap. Lijtelæted ydur under Volduga Guds Hønd/ so hañ Upphefie ydur a Vitiunartijmanum.

Þar næst skulum vier Læra þad af þeim/ Ad vera Samlynder/ Elska ecke Agg og Deilur/ so sem (þvi midur) ad mørgum hvørium er miøg tamt/ einkanlega a þessum sijdustu Tijmum. Epterfylgium helldur Radum Postulans Paals/ þar hañ seiger i Pistlenum til Rom. 12. Cap. Ad vier skulum (so myked sem Møgulegt er) hafa Frid vid alla Meñ. Latum oss koma til Hugar/ ad vier erum ecke sijdur Vegfarendur og Reisu Meñ/ eñ Josephs Brædur voru/ Hvørium hñ bañade ad Deila a Veigenum/ Gen. 45. Þvíad Sæler eru Fridsamer/ af þvi ad þeir munu Guds Børn kallader verda / seiger sialfur Endurlausnariñ vor hia Matth: 5. Cap: Eñ þar þvert a moote þeir sem sijfelldlega

eru wt um Grooa/ Kra̋kel og Klamarÿ/ og vilia Skada sin̄ Samchristin̄ Mañ unga Ordsakalaust uppa Lijf edur Æru: Hvad eru þeir? Ecke eru þeir Guds Børn/ helldur eru þeir (so sem Jesus sagde vid Gydinga) af Fødurnum Fianda. Bidium þar fyrer Gud i Jesu Nafne med Kong Ezechia/ seigiande: Sie ad eins Fridur og Trygd um alla vora Lijfdaga. / Esa: 39.

J þridia lage skulum vier læra þ af Læresveinunū Herrans Christi/ ad vera þolin̄mooder og bijda epter hn̄s Hialp/ in̄ til og so leinge ad hønum sialfum þiker hentugur Tyme til vera ad hugga oss og giøra til gooda/ Þvi komande mun hn̄ koma og ecke tefia/ seiger Spaamadurin̄ Habach. 2. Cap.

Þesser Herrans Christi Postular hefdu fyrer laungu maatt flÿta Selskapin̄ og fara hvør til sijns Heimkijn̄is og goods Vinar/ þar so lángt var lided fra hn̄s Andlaate/ hefde þar ecke vered nockur Von epter hia þeim/ ad hn̄ munde upprijsa og laata þa siaa sig aptur/ epter þvi sem hn̄ hafde þeim lofad og fyrer sagt hia Joh: 16. Cap; So skulum vier og so jafnan̄ med heilagre Þolin̄mæde/ vænta epter Hialp vors Endurlausnara/ seigiande so med glødu Hiarta: Þo Dvøl su færest fram̄ a Naatt/ fra þvi til Morguns sijdan̄/ mitt Hiarta a Guds Ast og Maatt/ efast skal ei nie kvijda/ etc:

Vier skulum ꝛ eirnin̄ trwa stadfastlega hn̄s Naadar Fyrerheitum sem hn̄ gifur oss i sijnu heilaga Orde/ og hallda oss vid þau/ bæde i Lijfe og Dauda/ þvi allt hvad hn̄ hefur oss lofad ꝛ fyrerheited/ þad ender hn̄ vissulega/ epter þvi sem vier syngiū i Psalme vorū/ Ord Guds ꝛ Veiger aller hn̄s/ eru myskun ꝛ san̄leike.

An̄ar Velgiørningurin̄ sem Herran̄ Christur audsijnde sijnum Læresveinum þa hn̄ uppreis af Dauda/ var þesse ad hn̄ bodade þeim øllum Frid/ seigiande: FRJDur Sie Med Ydur. A hvøriu munde Lærisveinunum Herrans Christi meira liggia en̄ a þessare Blessan? San̄arlega/ þeim laa a øngvu meir/ þeir voru i Ofride vid Gud vegna þess ad þeir høfdu yfergiefed og forsvared hn̄s Eingietin̄ Son/ þeir høfdu Ofrid i sine eigen̄ Samvitsku/ sem predikade hid in̄ra fyrer þeim seigiande: Þid vissud fyrer vijst ad Jesus var Sonur Guds lifanda/ þo blygdudust þier ecke ad flija fra hønum og seigia: Eg þecke ecke þan̄ Man̄. So hafa þa þesser goodu Herrans Christi Lærisveinar maatt hafa eina hrædelega Samvitsku epter ad bera. En̄ Jesus kiemur hier til þeirra so sem hn̄ er vanur ad koma til allra ængradra og sturladra Barna sin̄a/ ꝛ bodar þeim þau Huggunarsømu og Gledelegu Tijdendin̄/ ad Gud vilie nu vera til Frids vid þa: O hvad Hiartanlega glader munu Lærisveinarner hafa orded? Einkanlega sa stoorsyndare Petur þa hn̄ heyrde Jesum tala so til sijn.

Hier af høfum vier þad oss til Huggunar ad taka/ Ad sa same Jesus sem lyste Frid yfer sijna Lærisveina/ Han̄ er en̄ nu i Dag midt a medal vor/ ꝛ bodar einum og sierhvørium af oss sem hn̄ elskum Frid og Saatt vid Gud. Æ/ Lofadur sie lifande Gud fyrer þen̄an̄ Heilla Fridar-Bodskapin̄.

Sa þridie Paaska Velgiørningurin̄ sem vor blessade Endurlausnare veitte sijnum

num Lærefveinum/ var fæ ad hñ opnade þeirra Hugskot so ad þeir skilldu Ritningarnar. Þetta er og eirniñ stoor Velgiørningur: Herrañ seiger so sialfur hia Johañem 15. Cap: Ad vier faaum ekert aan sijn giørt. Ja/ Vier kuñum ecke ad kalla Jesum riettelega eirn Herra/ utañ fyrer heilagañ Anda/ 1. Cor: 12.

Þar fyrer/ ef vier villum ad Jesus skule opna vort Hiarta og Hugskot / so vier gietum skiled hñs heilaga Ord riettelega / og faaet sijdañ Avøxt af þvi til Sæluhialpar/ Þa latum ecke af ad bidia Gud/ ad hñ fyrer Krapt og Verkan Heilags Anda/ villde upplæka voru Hiarta og Skilninge/ so ad þad blessada Sæded Guds heilagra Orda mætte hia oss Rootfestast/ uppa þad ad vier mættum ad Endalokunum faa og ødlast þa Eilijfu Dyrdarcrunar Koronu sem Vtvølldum Guds Børnum er fyrerbwiñ i Himnarijkis Oendanlegre Vist og Glede. Þad veite oss Gud Fader i Nafne sijns Elskulega Sonar Jesu Christi/ Hvørium med Fødurnum og Heilögum Anda/ sie Lof og Dyrd nu hiedañ i fra z ad Eilijfu/ Amen/ A M E N.

# Fyrsta Suñudag epter Paska.

## Evangelium / Joh. 20. Cap.



S ad Kvøllde þess sama Þvottdags/ þa ed Lærefveinarner voru samañkomner ad lycktū Dyrū fyrer Hrædslusaker vid Gydinga/ Kom Jesus þar/ z stood i midied/ og sagde til þeirra/ Fridur sie med ydur. Og þa hañ sagde þetta/ sijnde hañ þeim Hendurnar/ og sijna Sijdu. Eñ Lærefveinarner glødduft vid/ ad þeir sau Herrañ. Jesus sagde þa eñ aptur til þeirra/ Fridur sie med ydur. Likt sem Faderiñ sende mig/ so sende eg ydur. Eñ sem hañ sagde þetta/ blies hañ a þa og sagde til þeirra/ Medtaked þier heilagañ Anda/ Hvørium helldst þier fyrergiefed Syndernar/ þeim eru þær fyrergiefnar. Og hvøriū helldst þier aptur hallded þær/ þa eru þær þm̄ aptur halldnar. Eñ Tomas eirn af þeim tolf/ sem kalladest Tvijbure/ var eige med þeim/ þa Jesus kom. Eñ hiner adrer Lærefveinarner søgdu til hañs/ vier høfum sied Herrañ. Eñ hañ sagde til þeirra. Nema ad eg siae Naglaforiñ i hañs Høndum/ og ad eg læte miñ Fingur i Naglaføriñ/ og eg leggie mijna Hønd i hñs Sijdu/

du/ þa trwe eg ecke. Og epter atta Daga/voru eñ aftur hñs Læresveinar þar iñe/ og Tomas med þeim/ kom Jesus ad lucktum Dyrum/ stood i mided/ og sagde. Fridur sie med ydur. Sijdañ sagde hañ til Tomam / riettu þiñ Fingur hingad/ og skoda mijnar Hendur/lypt upp þiñe Hende og legg i mijna Sijdu / og vert ecke vantrwadur/ Heldur trwadur/ Tomas svarade og sagde til hñs/ Drottiñ miñ og Gud miñ. Jesus sagde til hñs. Af þvi þu sæst mig Toma trwder þu/Sæler eru þeir sem ecke sia & trwa þo. Morg oñur Teikn giørde Jesus i Augsyn siña Læresveina / hvor ad eige eru skrifud i þessare Book/ eñ þetta er þvi skrifad/so ad þier trwed þad/ ad Jesus sie Christus Sonur Guds/ og ad þier so trwader/ hafed Lijfed i hñs Nafne.

## Exordium.

J Genesis Bookar 9. Cap: Lesum vier/ Ad epter Floodid/ þa Noe var wtgeingeñ wr Aurkiñe/ þa hafe hñ Plantad eirn Vijngard. Hvad ad er eiñ Merkeleg Epterlijking uppa vorn Frelsara Jesu Christu. Fyrst / so miked sem nafnenu vidvijkur/ þvi Noe þydest so miked sem eirn Huggare. So er & eirneñ Herrañ Christur/sa sañe & riette Huggareñ af Gude sendr hingad i þeñañ heim/til ad hugga oss Meñena i vorre armædu & Erfide a Jørduñe/hvørre Drotteñ hafde Bølvad/ Gen. 5. hvørs vegna hñ er og so ordeñ Bølvan vorra vegna/ uppa þad/hañ leyste oss fra Løgmalsens Bølvan/ Gal. 3. Eñ so sem þad ad Noe plantade eirn Vijngard/epter þad hñ var utgeingiñ ur aurkeñe: So hefur & eirneñ sa Himneske Noe / vor Drotteñ Jesus Christr strax epter þad ad hañ var utgeingeñ af Aurk siñar grafar og var upp aftur risen fra Daudum/Plantad sier eirn fagrañ & Lystelegañ Vijngard/ þar hañ iñsette þad Heilaga Predikunar Embætte og wtsende syna Læresveina um allañ Heimeñ/ad þeir skilldu þañ edla Vijngardeñ siñ (sem er Christeleg Kyrkia) rækta og Avaxtarsamañ giøra/hvad þeir hafa og eirneñ trwlega giørt/ad predika Evangelium wt af þeim Krossfesta Jesu af Nazareth/ a medal allra Þiooda sem under Himnenum eru / epter þvi sem Postuleñ Paall vottar i Pistlenum til Col. 1. Cap. Hier um fæum vier ad heyra nockud fleyra talad wt af þessa Dags Evangelio edur Gudspialle. Og er þad sierdeilis tvent/sem vier villum ad þessu siñe aminast/ wt af þeim fyrra Partenum Gudspiallsins. Þad fyrra skal vera um þessa Herrans Christi Openberingu fyrer synum Læresveinum. Añad um Innsetningu þess heilaga Predikunar Embættis/ med þvi fleyra sem var kuñum

oss

oss wt af þessum tveimur Smaapunctum / til Lærdooms / Huggunar og Uppvakningar wt ad draga.

Sa eilijfe Kyfsins Herra / sem virtest ad koma hier til sinna Læresveina / hann kome nu og so til vor med sinne Naad og giefe ad vier mættum fra so yfervega / ad þad verde hans Gudoomlega Nafne til Dyrdar / enn oss til Glede og Saalarnota / Amen.

# Um þad Fyrra.

SO myked sem þui fyrra Greinarkornenu vidvijkur / og afhrærer Herrans Christi Openberan fyrer sijnum Lærisveinum i Fraveru Thomæ Postula / þa er oss þetta ferent vel athugande. Fyrst / Tijdenn a hvørre þesse Openberan hafe skied / sem var a Paaskadags Kvøllded / epter þad hann var af Dauda upprisenn. Hvar af vier siaum / hvad myked ad Endurlausnaranum vorum Herranum Jesu Christo hafe umhugad vered um Velferd sinna Lærisveina / og allra þeirra sem hann elska / þat hann dregur ecke undann ad lata þa vita þad hann sie sannarlega upprisenn / helldur openberar hann þeim þad strax Samdægris. Enn Ordsøkenn hvar fyrer ad Herrann Christur villde so brádlega lata Lærisveinana sijna vita þar af / ad hann være upp aptur risenn / var su / ad hann visse vel ad þeim lææ a øngvu meir ad vita sier til Saaluhialpar enn þessu / þviad Christi Upprisa er sa riette Grundvøllur / uppa hvørn ad øll vor christeleg Trw og Saaluhialp er bygd / epter þui sem Postulenn seiger / 1. Cor. 15. Ef Christur er ecke upp aptur risenn / þa er ydar Trw onyt / þier erud þa og eirnenn enn i ydrum Syndum / og þeir sem i Christo sofnader eru / eru fortapader. Slaum til a Paaskadags Morgunenn strax þegar dagade / openberade Jesus sig fyrer Mariu Magdalenu / af hvørre hann hafde wtdrifed siø Diøfla / þar epter a openberade hann sig aptur fyrer Kvinnunum sem komnar voru til ad smyria hann / og fyrer Petre / sem epter Frasøgu Kvennanna var geingenn til Grafarennar ad leita ad Jesu. Epter Middeige liet hann sig sia af þeim tveimur sem geingu til Emaus / og þo hann dvelde hia þeim allt fram ad Kvøllde / þa openberade hann sig þo samt strax um Noottena fyrer þessum sijnum Lærisveinum / um hvøria hier verdur talad. Hvør vill nu þar fyrer ecke iata og vidurkienna ad Jesus sie sa goode Hyrderenn / sem ecke lætur af bæde a Morgna / Middeige og Kvølld / Ja / allt fram a Noott / ad leita ad sijnum Saudakindum / og færa þær a Veg Saaluhialparennar.

Hugge sig nu þar fyrer allar christnar Manneskiur vid þennann Hyrderenn / og vere vissar þar um / ad Jesus mune ecke heldur gleyma sier / hvørke Kvølld nie Morgna / ei heldur um Midteige edur Midnætte / heldur Umhyggiu fyrer oss bera / þui hann hefur teiknad oss i sijnum Høndum / Esa. 49.

Pad annad sem oss er athugande i þessare fyrre Greinenne / eru Persoonurnar til hvørra ad Jesus kom / sem voru Lærisveinarner. Enn hvad aumur og veykur Selskapur þetta hafe vered / þad vottar oss Pijningarhistoriann. Munu þad ecke vera þeir sem flijdu fra Jesu þegar hann var fangenn i Grasgardenum? Var ecke Petur eirn i bland þessara / sem afneytade hønum og soor sig ad hann þeckte hann ecke? Enn

allt um þ/ ecke lætur Herrañ vor Jesus þessar þeirra Averdingar hindra sig fra þvi ad koma til þeirra: O hvilyke Giæskurÿke er þetta? Hier vid meiga sig hugga aller Glæpamenñ ꝛ Stoorsyndarar/ ꝛ þeinkia til fra sætu Jesu Orda sm̃ hñ talar hia Matth. 9. Cap. Jeg er ecke komeñ ad kalla Riettlæta heldur Synduga til Jdrunar.

Pad þridia sem oss er athugande/ er Mateñ edur med hvørium Hætte ad Jesus hafe komed til þessara siña Lærefveina: J Gudspiallenu stendur/ ad hñ hafe komed þa Dyrnar voru aptur lucktar. Hvar af vier lærum / ad þeckia og kañast vid Jesu Guds Sonar Magt / hvør ad er so stoor / ad hun yfergeingur allañ mañlegañ Skilning. Gieck þ ecke yfer allañ mañlegañ Skilning ꝛ Natturu/ þa hñ fæddest af tillucktu Meyareñar Lyfe? Var þ ecke furdanlegt/ þa hñ gieck wt af Grøfeñe/ sm̃ so var apturluckt/ iñsiglud ꝛ med Vardhalldsmøñunum sterklega forvørud?

Nu/ sa sm̃ so dasamlega giørde allt þetta/ ꝛ sette sig um syder til Guds hægre Handar/ skylde hñ ecke med sama Guddooms Krapte kuña ad komast hindrunarlaust iñ i giegnum lucktar Dyr til Lærefveinaña? Ja/ Herra Jesu/ alldrei erum vier so hart iñeluckter / alldrei so sterklega af nockre Neyd og Þreingingu umkringder/ ad þu kuñer ecke ad koma til vor ꝛ hialpa oss. Verum þar fyrer ecke ottaslegner eins ꝛ Lærefveinarner voru / hvørier ad lokudu ad sier Dyrnar/ vegna Hrædslu vid Gydinga/ heldur seigum med hinum H. David af Psal. 27. Drotteñ er mitt Lioos/ ꝛ miñ Heilsugiafare/ fyrer hvøriū skal eg ottast? Drotteñ er miñ Lyfsins Kraptur/ fyrer hvørium skal eg hræddur vera? Jñskrifum i vor Hiørtu þa Gullvægu Huggunargrein Postulans Pauls/ Rom. 8. Þar hñ seiger: Fyrst Gud er med oss/ hvør kañ þa ad vera i moote oss? Hvør ed ecke hlyfde synum Eingietnum Syne/ helldur gaf hñ wt fyrer oss alla/ hvørneñ skyllde hñ þa ecke giefa oss alla Hlute med hønum?

Pad fioorda sm̃ vier eigum ad hugleida wt af þessum fyrra Partenum/ er þ/ hvad Jesus hafe giørt ꝛ adhafst þa hñ kom iñ til siña Lærefveina. Gudspiallamadureñ seiger/ ad hñ hafe stiged i mided ꝛ sagt/ FRJDur Sie MED ȜDur: O/ hvilyk gledeleg Osk er þetta? Hvad kuñe Herrans Christi Lærefveinum huggunarsamlegra til ad falla eñ þetta/ ad Jesus lætur þa vita/ ad Gud er til Frids vid þa? Þesse Fridar Osk Herrañs Christi er so fullkomleg/ so sem sialfur Gud Fader hefde talad persoonulega vid þa og sagt: Þier vited ad þier hafed ecke ad eins yfergiefed/ heldur og einneñ afsvared miñ eingietiñ Son þa hñ var ydar vegna fiøtradur og bundiñ/ Eñ siaed til/ lyka sem þad Fadeiñ er Børnunum lyknsamur/ so er eg ydur myskunsamur/ So fiærre sem þad Austred er fra Vestrenu læt eg ydar Ȝfertrodslur vera fra ydur/ Jeg þecke ydar Skøpun/ mier kiemur til Hugar þad þier erud Dupt/ Psalm: 103. Nu so sem þad ad Jesus bodar hier Lærefveinunum Frid og Sætt vid siñ Himneska Fødur/ so boder nu og tilseiger einniñ Gud Fader eñ i Dag øllum riettrwudum Børnum syn-

um/Frid fyrer Jesum Christum/ seigiande: Hvor vill ásaka Guds Utvalda? Gud er hier sem riettlæter/ hvør er hñ sem fordæmer? Christur er hier sem dáed hefur/ Ja/myklu heldur sa sem upp aftur er vakeñ/ Rom. 8.

Framveigis stendur so i Textanum. Og sem hañ þetta sagde/ Sijnde hañ þeim Hendurnar/ og sijna Sydu/ Eñ Læresveinarner glödduſt vid ad þeir sau Herrañ. Af þessum Textans Ordum meigum vier liooslega sia & merkia/ hvøria Verkan ad þesse Openberan Herrañs Christi hafe haft hia Læresveinunum/ sem er/ ad þeir urdu hiartanlega glader & feigner af hñs Tilkomu & Sioon/ & þo þeir være i fyrstu med hálfum Huga/ & so þ bangner/ þar Herrañ kom so skyndelega & oforvarandis iñ til þeirra/ þa samt sem ádur/ nær þeir sia hñ/ heyra hñ tala vingiarnlega vid sig/ & sijna sier bæde Hendurnar & sijna Sydu/ þa verda þeir allshugar feigner/ hvad øngvañveigeñ er ad undra. Þvi hvør Glede kañ stærre nockre synduge Mañeskiu til ad falla eñ su/ ad meiga þar ad sia Jesum? Hvør ed so vitnar um sig sialfañ hia Joh. 10. Og seiger: Jeg er komeñ til þess/ ad þeir skule hafa Lijf & fulla Nægd. Um Forfødureñ Abraham er þ skrifad/ ad hñ hafe haft hiartanlega Epterlangan til ad meiga þar ad sia Herrans Christi Dag/ eñ þar kom ad/ ad hñ sa hñ & vard gladur vid/ Joh. 8. Hvad hiartanlega gladdeſt sa gamle Simeon/ þa hñ sa Jesum i Hollðenu/ & took hñ uppa sijna Armlegge? Hroopade hñ ecke upp af myklum Fagnade og sagde? Nu lætur Drotteñ þiñ Þioon i Fride fara/ Luc. 2. C. Og þo so sie ad vier siaum ecke Jesum med vorū lijkamlegum Augum hier i Lijfe eins & Simeon/ þa siaum vær hñ þo samt andlega i sijnu H. Orde og hiñ háverdugu Sacramentis. Gledium oss þar fyrer med Postulunū Herrans Christi yfer þessare andlegu Siooneñe/ & vid þ ad vier sem trwum a Jesum Christum/ eigū fullkomlega Von ad meiga sia hñ sijdar meir i Dyrdeñe/ Auglite til Auglitis.

## Um þad Añad.

ANNad Greinarkorned er um Iñsetning & Stiftan þess heilaga Predikunar Embættis. J Gudspiallenu stendur/ Ad epter þad ad Jesus hafde Oskad Læresveinunum Fridar/ og þad sama ecke einusiñe/ heldur i heilar tvær Reisur/ þa hafe hñ talad til þeirra og sagt: Lijka sem Faderiñ sende mig/ so sende Eg Ydur.

Þrent er oss i þessu ødru Greinarkornenu athugande: Fyrst/ Hvør sa sie sem Ordsins Þienara edur Kieñemeñena utsender: Þar næst/ Hvør þa giøre hentuga og duganlega til ad framfylgia þessu sijnu Embætte: Og i þridia mata/ Hvørt ad sie Embætte Kieñemañaña.

So myked sem þvi fyrsta vidvijkur/ þa skulum vier vita ad Prestar og Kiennedur Kristneñar eru oss af øngrum ødrum sender og skickader/ heldur eñ af þeim ædsta Hyrder & Biskupe vorra Salna Herranum Jesu Christo/ þvi so seig

er hñ sialfur til Lærefveinaña sina/ hia Marcum Gudspiallamañe/ 16. Fared wt um allañ Heimiñ og prediked Evangelium allre Skiepnu. Item þa hñ upp foor til Himens/ talade hñ so til þeirra og sagde: Þier skulud myner Vottar vera/ þad er/ þier skulud predika af mier/ mynum Dasemdarverkum/ Pynu og Dauda/ Vpprisu og Himnafør/ bæde i Jerusalem og i allre Judæa og Samaria/ og allt til Jardareñar Enda/ Act. 1. Og hier fyrer kallast nu Prestarner Legatar edur Sendebodar i Christi stad/ 2. Cor: 5. Item Christi Þienarar og Raadsmeñ yfer Guds Leyndardoomum/ 1. Cor: 4.

Hier af høfum vier oss þetta til Lærdooms ad taka: Fyrst/ hvørsu þad ad vor liwfe Lausnare Jesus hefur alla Daga Vmhyggiu bored fyrer sine Kristne/ og ber eñ nu i Dag i þvi ad senda gooda og trwa Verkmeñ i siñ Vyngard sem oss skule uppfræda i søñum Guds Otta og vorum Saaluhialpar Efnum. So sende hñ þeim fyrer Flooded þañ Riettlætesins predikara Noa/ sydañ þar epter þa heiløgu Forfedur/ Spameñ og Konga/ sem med allre Alwd og Alvøru kiendu Guds Gøtu i Sañleika. Og allra sydast þa hñ uppfoor til Himna/ sette hñ suma til Postula/ suma til Spamaña/ suma til Gudspiallara/ suma til Hirdara og Lærefedra epter þvi sem þar stendur i Pistl: til Eph: 4. Þessare sinne Skickan heldur hñ eñ vid Magt a vorum Døgum/ og mun halda allt til Veralldareñar Enda. Hvar fyrer oss ber ad seigia hønum audmiwkar Hiartans Þacker alla vora Lijfdaga.

Þar næst eiga Tilheyrendurner ad læra þad hier ad hafa syna Kieñefedur og Saalusorgara i Heidre/ Elska þa/ Hlyda þeim og giøra til Gooda vegna þess sem þeir eru fra sender/ epter þvi sem Guds Ande bydur og skipar/ 1. Pistl: til Tim: 5. Cap: seigiande: Kulldungana sem vel forstanda/ halde Meñ tvøfalldlegs Heidurs verduga/ einkum þa sem erfida i Ordenu og i Lærdoomenum. Item seiger Postuliñ Paall til Gal: 6. Cap: Ad sa sem frædur verdur med Ordenu skule bijta hønum allskonar Giædum sem hñ uppfræder. Og eñ aptur seiger hñ i Pistlenum til Hebræos 13. Cap: Hlyded ydar Kieñefedrum og fylged þeim/ þviad þeir vaka yfer ydrum Saalum lyka sem þeir ed Reikningskap þar fyrer giøra skulu/ so ad þeir giøre þad med Glede eñ ecke med Andvarpan/ þvi þad er ydur ecke gott.

Hier hvert a moote/ hvøreier helldst sem forackta syna Saalusorgara/ amast og stugga vid þeim/ þeir hafa sier ecke añars ad vænta eñ Straffs og þungrar Hefndar af Gude sifandi so sem nooglega Dæme finast til/ bæde forn og ny.

Vnt David Kong lesum vier/ 2. Sam: 10. Ad þegar Hanon Kongur þeirra Amoritarū forsmade hñs Legata og hñ sende til hñs ad hugga hñ epter syns Fødurs Dauda/ og liet raka af þeim hælft Skiegged uppa Spott/ þa hafe David orded reidur og i Hel slegeд fiørutyu Þusund Riddaralids af Hanons Folke. Hvad myklu framar meine þier ad þm̄ ædsta Konge Dyrdareñar mune misþyka þa hñs Þienurum og Sendebodum er noktud til Miska giørt. Siañ Dæ

me

me þeirra Chore/Dathan og Abiram sem møgludu i moote Guds Mañe Moy=
se/ hvørsu þad ad Jørdeñ lauk synum Muñe upp ⁊ svelgde þa/Num: 16. Eins
lyka urdu Vngmeñeñ af Bethel sem hæddu og spottudu Herrans Spamañ sun=
durrifiñ af Biarndyrum/2. Kong: B: 2.Cap: Þar fyrer skylde eirn ⁊ sierhvør
varast ad forsmaa Herrans Christi Þienara sem eru Prestar ⁊ Kieñemeñ/þvi so
seiger hñ sialfur um þa hia Luc: 10. Hvør ydur heyrer hñ heyrer mier/Og hvør
ydur forsmaaer/hñ forsmaaer mig sm̄ ydur sende, Nu er þ̄ vyst ⁊ obrygdanlegt/ad
hvør helldst sem forackar Drottiñ/ hñ verdur aptur af Drottne forácktadur/1.
Sam: 2. Psalm: 18. Eñ hvad hrædelegt mun vera ad falla i Hende lif=
anda Guds ? Heb: 10. Herrañ vardveite oss þar fra i Jesu Nafne.

Nu kañ einhvør ad þeinkia so ⁊ seigia ; Med þvi ad Herrañ Christus seigist
senda syna Læresveina ⁊ Postula/eins edur med sama hætte ⁊ Faderiñ sende sig.
Munu þa Læresveinarner nockud hafa ætt ad lyda Kvøl ⁊ Pynu fyrer Mañ=
kynsins Synder/ eins og Christur ætte ad giøra ? Nei/ langt fiærre/ þvi so
vitnar Spamaduriñ Esaias um hñ/ 63. Cap: So talande under sialfs hañs
eigiñ Persoonu/ Eg Foottred Vynpressuna einsamall/ og þar er eingiñ af Folk=
enu medur mier. Eñ so vier mættum komast ad riettre Meiningu ⁊ Skil=
ninge þessara Herrans Christi Orda/þar hñ seiger til Læresveinanna siña: Lyk=
ka sem Faderiñ sende mig/ so sende eg ydur. Þa skulum vier vita/ ad
Christur var ecke eiñungis sendur af synum Himneska Fødur hingad i þeñañ
Heim til þess ad lyda Kvøl ⁊ Pynu fyrer Mañkyned/ heldur var hñ þar ad auk=
ke ⁊ so sendur til ad kieña ⁊ predika Guds Ord epter þvi sem hñ vottar sialfur
fyrer Muñ Spamañsins Esaiæ 61. seigiande ; Ande Drottins er yfer mier/
þar fyrer hefur hñ smurt mig ⁊ sendt til ad predika Evangelium fyrer þeim
Voludu. J þeñañ Maata seigest Jesus wtsenda syna Læresveina ⁊ alla adra
trwa Ordsins Þienara/ sem er ad kieña ⁊ predika/ eñ ecke til þess ad giøra Full=
nægiu Boot ⁊ Betalning fyrer Mañaña Synder/ þvi þad kuñe eingiñ ad giøra
utañ Jesus alleinasta/ sañur Gud ⁊ sañur Madur. Vær skulum ⁊ eirniñ vita/
ad Jesus var sendur af Fødurnū hingad i þeñañ Heim/ad hñ skyllde med Krapta=
verkum ⁊ Teiknum bevysa Sañleika syns Lærdooms/ so sm̄ hñ seiger hia Joh:
5: Cap: Þessa sømu Magt ⁊ Myndugleika gaf hñ ⁊ eirneñ synum Læresvein=
um/ad þeir skylldu gieta giørt Stoormerke/ þvi so seiger hñ til fra hia Marcū/
16. J mynu Nafne munu þier Diøfla wtreka/ nyar Tungur tala ⁊ Høggorma
upptaka/ ⁊ etc:

Hier kañ einhvør aptur ad spyria/ hvørniñ þad kome þa til ad vorer Prestar
⁊ Kieñemeñ giøre ecke sømu Dasemdarverk eñ nu a vorum Døgum sem Postu=
larner giørdu i syna Tyd/fyrst þeir eru sama Embættis ⁊ Erendis wtsender eins
⁊ þier ? Hier til svarast so / ad Guds Þienarar giøre ecke sydur nu a þessum
Tymum mykla ⁊ yfernatturlega Hlute eñ Postularner. Er þad ecke furdanleg=
ur Hlutur þa eiñ Mañeskia sem hefur lifad ⁊ aled siñ Aldur i allskonar Glæ=

 pum/

pum/ Syndum ꝛ Ranglæte/ verdur so umskipteleg fyrer Prestsins Amiñingar ꝛ Gudrækelegar Kieñingar/ ad hun kallar upp og seiger: Minstu Drottiñ ecke a mijnar umlidnar Misgiørder/ Myskuna þu mier snarlega/ Hialpa þu mier fyrer saker Dyrdar þijns Nafns/Frelsa þu mig ꝛ fyrergief mier allar mijnar Synder/Psalm. 79. Er þad ecke ꝛ so eitt myked Furduverk þa eirn sem hefur ædur ørvænt sier Guds Naader vegna margfiølda siña Synda/Fær soddañ Hugsvølun af sætre Evangelij predikun/ad hñ med Hiartans Glede og Fagnade kañ ad seigia med Postulanum Paale/ Jeg er viss þar uppa/ ad hvørke Dande nie Lyf/ hvørke Eingill nie Herradæme eda Magt/ecke hid nalæga eda okomna/eige Hæd eda Dypt/nie nockur øñur Skiepna/ fær mig skiled fra Guds Kiærleika sem ad er i Drottne vorum Jesu Christo/ Rom: 8. Þad añad sem vær eigum ad hugleida i þessu Greinarkorne/ er/hvør Kieñemeñena giøre hentuga ꝛ duganlega til þess ad framfylgia sijnu Embætte. Eingiñ skylde þeinkia hvørsu lærdur ꝛ vel mentadur sem hñ þikest vera/ad hñ af sialfum sier giete staded so i þessu Embætte sem hønum ber/ þvi vier erum ecke af sialfum oss til neyter nockud ad hugleida/ so sem af sialfum oss/ 2. Cor: 3. Helldur hvad vier erum neyter/ þa er þad af Gude. J einu Orde ad seigia/Kieñemeñerner kuña ecke neitt ad giøra ꝥ Gude er þægelegt og til Mañaña Saaluhialpar er Nytsamlegt/ utañ so sie ad ꝥ skiee fyrer Krapt og Verkan heilags Anda/ og þar fyrer meddeiler nu Drottiñ vor Jesus Lærisveinunum sijnum þañ gooda heilaga Anda med þeim hætte/ad hñ blæs a þa og seiger: **Medtaked þier heilagañ Anda.** J þessum Ordum giefur vor liufe Endurlausnare Jesus øllum Veykum og Vanmættugum Ordsins Þienurum eina Hiartnæma Huggun/sem er þesse ad heilagur Ande skule vera i Verke med þeim ꝛ hialpa þeim so þeir giete framfylgt sijnu Embætte/ Gude til Lofs/ eñ sijnum Tilheyrendum til Gagns og Betrunar/ so þad Ord lifanda Guds/ sem þeir kieña og frambera/ kome ecke toomt og Avaxtarlaust til hañs aptur/ Esaiæ 55.

Eñ so myked sem vidvijkur Embættenu sialfu/ hvørt ꝛ hvílijkt ꝥ sie/ kieñer oss Jesus i þessum Ordum/ þar hñ seiger: **Hvørium helldst þier fyrergiefed Syndernar/þeim eru þær fyrergiefnar/Og hvørium helldst þier apturhallded þær/ þa eru þær þeim apturhalldnar.** Hier kañ einhvør ad spyria: Hvørneñ a þetta ad skilia? Seiger ecke H. Ande Guds fyrer Muñ Spamañsins Esaiæ so under persoonu sialfs Herrans Christi 43. Cap.? Eg/ Eg em hañ sem afmæer þijnar Synder miña vegna / ꝛ miñest ecke þiña Misgiørda. Talar ecke sialfur Jesus so i Openberingarbookareñar 3. Cap. Jeg læse/ ꝛ eingeñ upplijkur/ Jeg upplijk/ ꝛ eingeñ apturlætur. Og hia Marcum Gudspiallamañe/ 2. Stendur skrifad/Ad Pharisearner hafe sagt vid Christum/hvørn þeir hielldu fyrer eirn sliettañ ꝛ einfalldañ Mañ/ hvør mæ Syndernar fyrergiefa utañ Gud eirn? Hvørneñ meiga Prestarner þa boda ꝛ tilseigia sijnum Sok-

nar-

So opt ſem vier ſiaum Fuglana fliwga under Himnenũ/ þa lætũ oſſ þat um aminta vera/ ad vier ⁊ eirneñ Andlega uppfliwgum med ſañre Gudrækne ⁊ ſtødugre Trw til vors Endurlauſnara ſem er a Himnũ. Hvar ad vera og meiga ſiaa Gud Auglite til Auglitis um alla Eilyfd/ oſſ veite ſa Himneſke Dyrdarcñar Konungur/ hvørrũ ad ſie Lof ⁊ Heidur fra Eilyfd til Eilyfdar/ A M E N.

# Siøtta Suñudag epter Paſka.

## Evangelium/ Joh. 15. og 16. Cap.

JEſus ſagde til ſiña Læreſveina. Eñ þa ed ſa Huggareñ kiemur / hvørn eg mun ſenda ydur af mijnum Fødur/ ſem ad er Sañleikſins Ande / hvør af Fødurnum framgeingur / hañ mun bera Vitne af mier / Og þier munud mier Vitne bera/ þvi ad þier hafed i fra Upphafe hia mier vered. Eñ þetta tala eg þvi til ydar / ſo ad þier hneyxleſt ecke. Þviad þeir munu forboda ydur/ og ſa Tijme kiemur/ ad hvør hañ Lijflætur ydur/ ſa meinar ſig ad giora Gude þægt Verk. Og þetta giora þeir ydur/ af þvi þeir þeckia hvørke Fødurin nie mig. Eñ þetta tala eg þvi til ydar/ ad nær ſu Stund kiemur/ ad þier miñeſt þeſſ/ ad eg ſagde ydur þad. Eñ þetta ſagda eg ydur eige i Upphafe/ þvi eg var hia ydur.

## Exordium.

J Geneſis Bookar 49. Cap: Leſum vier um Forfødureñ Jacob/ Ad þegar komed var ad hñs Andlæte ⁊ hñ ætte ad ſkilia vid þetta ſallvallta ⁊ auma Lijf/ þa hafe hñ til ſijn kallad ſijna Tolf Syne og ſagt ſierhvørium þeirra fyrer hvad yfer þa munde koma epter ſijna Burtfør ⁊ Afgang af þſſũ Heime. Eins giører ⁊ ſo hier vor Bleſſade Endurlauſnare Jeſus Chriſtus/ Hañ ſeiger fyrer/ ecke ad eins Læreſveinunũ ſijnũ/ helldur ⁊ øllum ſijnũ Elſkulegũ ⁊ trwudũ Børnũ/ bæde Medlæte ⁊ Mootlæte/ Sorg ⁊ Glede ſm̃ þm̃ mune tilfalla epter þ hñ ſie til Himna uppſtijgeñ/ ſo ſm̃ þſſe vor Gudſpialls Texte wt viſar. Þar eru ad ſøñu marger ſm̃ a þſſũ Døgũ hafa ſtoora Forvitne ⁊ Epterlængan til ad vita ⁊ ſpyriaſt epter af Stiørnumeyſturũ ⁊ ødrum/ hvad a þra Daga mune dryfa/ Eñ þ ber til ad þ ſtær opt, betr ⁊ geingſt ecke eptter ſem þeir i ſoddañ Efnũ fyrer ſpaa. Eñ Jeſu Fyrerſøgn ⁊ Spaadoomur ſtær all-



drei

dret þeil/ þvi hñ er øllū Stiørnumeysturū & Vijsendamønū meire / & fter þyrer alla vora Vege/ Psalm: 139. Og þo so sie/ ad vier høfū aadur þyrre heyrt nockud tal/ ad um Kross & Mootlætingar Guds Barna/ sem þau hlioota ad lyda hier i þessū Heime/ sem & eirneñ um Embætte H. Anda/ hvørt þ sie/ þvi a hvørttvegga þra hefur minst vered þañ þridia & fioorda Sunnudag epter Paaska/ Þa villium vier þo samt i stysta & einfaldasta maata fa ad heyra nockud fleyra hier um talad epter Gudspiallsins Hlioodan. Drotteñ Gud sende oss siñ Anda & Naad i Jesu Nafne/ Amen.

Vier høfum heyrt (mijner Elskanleger) a nockrum fyrerfarande Sunnudøgū/ ad Herrañ vor Jesus Christur hafe sagt sijnū Lærefveinū fyrer Burtfør sijna til Fødursins/ & er þvi ecke ad undra þo þm goodu Guds Mønū hafe geinged þ til Hiarta/ & þeir hafe sturlast þar af/ ad þeir skyldu verda ad missa fra sier & sia a bak þvilijks Herra. Eñ ofañ a allt þta eikur þ þm ecke all-litla Sorg & Hugarmangur/ þar Herrañ seiger þm fyrer i þessa Dags Gudspialle/ hvøreñ ad þm skule ganga epter sijna Burtfør/ sem er ad þeir mune rata i allskonar Eymder & Mootlætingar. Eñ uppa þ ad þr skyldu ecke þeinkia þ þeirra Herra & Lavarder hefde øldungis yfergiefed þa/ þa giefur hñ þm hier i þessa Dags Gudspialle/ eñ nu uppa nytt þ Fyrerheit/ ad hñ vilie senda þm þañ verduga H. Anda/ hvørs Persoona/ Embætte & Vtrietting wtmaalud verdur i þessū Textans Ordum þar so strax i Vpphafenu stendur: **Nær ed sa Huggariñ kiemur / sem eg mun senda ydur af mijnum Fødur/ sem ad er sañleiksins Ande/ hvør af Fødurnum framgeingur/ hañ mun bera Vitne af mier.**

Hier verdur wt þryckelega gieted þeirra þriggia Guddoomsins Persoona/ sem er/ fyrst Fødursins/ af hvørium H. Ande framgeingur/ þar næst Sonarens sem hñ sender/ og heilags Anda sem sendur verdur. Hvar med oss verdur kient og fyrer Siooner sett/ ad Heilagur Ande sie sañur eilyfur og Almattugur Gud med Fødur og Syne. Med þvi þa hñ er Gud/ so erū vier hønū skylduger. Fyrst um Æru & Þienustu/ þvi so stendur þar skrifad hia Matth: 4. Cap: Drottinn Gud þiñ skalltu tilbidia og hønū einū þioona. Vier erū hønū skyllduger um Elsku/ þvi so stendur i Devt: Book: 6. Cap: Elska skalltu Drottiñ Gud þiñ af øllu Hiarta þijnu/ af allre Saal & øllū Mætte þijnū. Vier erum & eirneñ skyllduger hønum um Otta/ epter þvi sem Drottiñ bijdur & skipar/ Devt: Book: 6. Þu skallt Ottast Drottiñ Gud þiñ & þioona hønū. Staañ þvi so til/ ad Ande Guds hafe ecke Ordsøk ad klaga yfer oss og seigia: Fyrst eg er ydar Herra/ hvar er þa minn Otte og Heidur? Malach: 1

Þar næst giefur Herrañ Christur heiløgum Anda hier i Textanum þriu merkeleg Nøfn edur Yfertitla/ med hvørium hñ i Lioose lætur/ hvørt ad sie hñs Embætte/ edur hvøria Verkan hñ hafe hia øllū trwudū Guds Børnum: Fyrst kallar hñ hñ hier HVGGARA. J þm Griska Textanum verdur hønū giefed þetta

Nafn

Nafn/ Paracletus/ þad þydest so myked sē Arnadarmadur edur sa sem Forsvar-
veiter einū & Adstod til syns Mals / hvøriu Nafne ad Herrañ Christur verdur
& so kalladur af Postulanū/ Joh. 1. Pist. 2. Cap. Þar so stendur: Ef nockur
Syndgast/ þa høfū vier Arnadarmañen hia Fødurnum / Jesum Christum þañ
Riettlata. Nu er ꝥ Embætte edur Skyllda eins Arnadarmañs/ ad standa trw-
lega med þm sē hñ hefur teked under sitt Forsvar/ þar næst ad forsvara Søkena
sem hønū er tiltrwud/ so sē være ꝥ sialfs hñs eigen Søk. J þridia lage ber ei-
num riettū Talsmañe ad aminña þañ sem hñ hefur so ad sier teked/ ad hñ vyke
ecke fra siñe Søk eda fortale sig i eirn edur añañ Máta. Og i fiorda lage á
hñ ad hughreysta þañ sem Søkena á/ ef hñ formermerker ad hñ ætlar ad verda
hræddur eda efablanden um syn Malefne. Allt ꝥta giører nu sa himneske
Talsmadurenn/ & vor beste & trwaste Arnadarmadur H. Ande/ hñ tekur ad sier vort
Malefne/ & stendur med oss i øllū vorū Naudsynium / Ja/ hñ giefur oss soddañ
eitt Hiarta/ Siñe & Mood / so vier ørvinlunst ecke under vorū Synda Punga.
Eñ sierdeilis & einkum þa er þesse goode H. Ande oss nalægur/ þa vier lydū Of-
sookner fyrer Guds Nafns Saker / so sem sia má af Dæme Postulaña & añara
Guds Pyslarvotta/ hñ stendur med oss & eirneñ i allskonar Krosse & Mootgange/
so sem hñ giørde þm gooda Guds Mañe Job/ David & ødrum fleyrum/ & a vor-
re sydustu Stundu/ þa mun þesse vor Huggare allra best & mest hia oss standa/
& giefa oss ꝥ Siñe/ ad vier viliuglega & med glødu Giede skillum vid ꝥta auma &
fallvallta Lyf/ hvar um vier & eirneñ iduglega bidium a hvøriū helgū Deige/
þa vier komū til samans i christelegre Kyrkiu/ seigiande: Þu hædste Styrkur i
allre Neyd/ Hialp so vier hrædunst hvørke Skam nie Deyd / Og i voru Siñe sieu
fruggver þa/ nær Diøfull vill a oss stryda/ & Sálen skilst Lykama fra/ Kyrieleis.

Þar næst & i añañ Máta / utmálar Herrañ Christur hier & i lioose lætur/
hvørt ad sie Embætte & Verkan þess gooda heilaga Anda/ þar hñ kallar hñ Anda
Sañleiksins/ hvørt Nafn & Yfirtitell hønū heyrer & soomer riettelega ad bera &
behallda um alla Eilyfd/ þvi hñ er sa sē kiener oss/ hvørneñ vier eigū riettelega
ad trwa/ christelega ad lifa / & sæluhialplega burt ad deya/ hvar um oss vardar
hid allra mesta.

Þridia Embætte H. Anda hvørs hier verdur gieted/ er ꝥ/ ad Herrañ Chri-
stur seiger: Ad Hañ Mune Bera Vitne Af Sier. Med tveñū Moote ber heila-
gur Ande Vitne af Herranum Christo. Fyrst hid iñra i Hiørtum allra trwadra
Guds Barna vottar hñ/ ad Christur sie sañur & eilyfur Guds Sonur/ sem i Hei-
meñ er komeñ til þess ad endurleysa Mañkyned/ eñ hid ytra ber H. Ande Vitne
af Herranum Christo/ fyrer Muñ & Predikun allra trwlyndra Ordsins Þienar-
ra/ so sem Christur talar hier sialfur til siña Lærefveina / seigiande: Ad Þeir
Mune Sier Og Eirneñ Vitne Bera.

Hier af lærum vier ꝥ / ad þar eiga ecke ad eins Prestar & Kieñemeñ ad bera
Vitne af Herranum Christo/ helldur aller adrer vt i fra/ ꝥ er ad skilia/ þeir eiga

 ad

ad trwa ſtadfaſtlega i Hiartanu/ ꝛ jata med Muñenum ad Jeſus ſie ſañur Gud ꝛ Madur/ ſem oſſ ſie af Fødurnum giørdur til Viſdooms/ Riettlætis/ Helgunar ꝛ Endurlauſnar/ epter þvi ſem Poſtuleñ Pall talar/ 1. Cor. 1.

Vt af þeſſu ædur ſøgdu viltū vier taka oſſ fta til Lærdooms: Fyrſt ad þeck- ia riettelega ꝛ kañaſt vid owtſkyranlega Guds Elſku ꝛ Kiærleika / ſem hā hefur til vor aumra ſyndugra Maña / þar hā lætur ſier ecke ad eins ſo myked um oſſ hugad vera/ ad hā gefur oſſ ſyna H. Eingla / þa þienuſtuſømu Anda/ til Vern- dar ꝛ Forſvars a øllū vorū Vegum ꝛ Stigum/ Pſalm. 91. Heldur ꝛ eirneñ ſen- der hā þar a ofañ þañ verduga H. Anda i Hiørtu ſiña trwadra Barna/ ſem vera ſkule fra Tulkur ꝛ Talsmadur/ ꝛ giøra oſſ ad ſialfs ſyns eigeñ Herberge/ Hei- mile ꝛ Buſtad. Hvørſu kuñe Gud Drotteñ meir ꝛ framar ad elſka oſſ?

Mykels Lofs verd er ſu ſtoora Miedaumkan ꝛ Vmhyggia/ ſem ſkrifad er ad þeir gømlu Doomendur ꝛ Yfervalldsmeñ hafe audſyndt og beviſad ædur fordū einfølldum Møñum/ Eckium ꝛ Einſtædingum/ ſem er ad nær ſem helldſt þeſſer og þvilyker ættu Mal ſitt fyrer þeirra Doome/ ꝛ þeir gætu ecke talad fyrer ſig ed- ur framfylgt ſiñe Søk riettelega/ þa hafe Yferdoomareñ ſtrax teked eirn af ſynū Doomsmøñum og ſkickad hønum ad taka ad ſier Mal fra einfølldu ꝛ munadar- lauſu Skiepnu/ ꝛ framfylgia þvi heñar vegna. Eñ længtum ſtærre Velgiørning audſyner Gud Drotteñ oſſ/ þar hā tekur midt wr Rade fra heilgu Guddoom- ſins Preñingar/ þañ gooda heilaga Anda/ ꝛ ſender oſſ aumū Malſtømū Møñum hā (ſem ecke kuñum ad ſvara Gude einu Orde til þuſund) Ad framfylgia Mal- efnum vorū/ ꝛ kieña oſſ hvørneñ ꝥ vier eigum ad haga oſſ ꝛ ſkycka/ ſo vier ecke ſii- dar meir komum fyrer Guds ſtrænga Riettlætisdoom.

Eijñ Hiartnæma Huggun høfū vier oſſ ꝛ eirneñ ad taka wt af þeſſare Sen- dingu ꝛ Giøf heilags Anda/ ſem er þeſſe/ ad vier þurfū nu ecke framar ad hræ- daſt edur ſkielfaſt fyrer nockrum Hlut/ hvørke a Himne nie a Jødu/ hvørt hel- dur ſem ꝥ eru Synder vorar/ Løgmalſins Bølvan/ Guds Reide/ Eilyfur Daude edur Kvaler þeirra Fordæmdu/ þviad heilagur Ande er nu ordeñ vor Eign og Eigendoomur/ hvør ad er jafn Gude Fødur ꝛ hās Syne Jeſu Chriſto ad allre Magt/ Dyrd ꝛ Heidre. Þar fyrer kañ eingeñ Ætt edur Angiſt ſo ſtoor oſſ ad Høndum koma/ ad hā giete oſſ ecke hialpad. Latum oſſ þar fyrer þar um æ- minta vera/ Ad vier yfer alla Hlute fram þøckum Gude Almættugū af Hiarta fyrer ꝥ ad hañ hefur gefed oſſ ſiñ heilaga Anda/ æn hvørs Omøgulegt hefde ve- red ad vier hefdum kuñad ad komaſt til riettrar ꝛ ſañrar Þeckingar Guds/ eda gieta trwad a hās Son Jeſum Chriſtum.

Vier ſkulū ꝛ eirnelgeñ varaſt ad forſooma edur foracta Guds Orda Heyrn ꝛ þau H. Sacramenta/ hvør ad eru þau helldſtu Medøl fyrer hvør H. Ande vill vera krøftugur i oſſ/ heldur ſem oftaſt vera þar vidſtadder ſem Guds Ord er um Hønd haft.

J þridia mata ſkulum vier ꝛ eirniñ taka oſſ Vara fyrer Athuggaleyſe ꝛ alls

konar

konar kloptũ Syndum ⁊ Løstum/ med hvørium vier styggiũ fra oss þeññañ Edle Giestiñ/ Heilagañ Anda/ þvi lyka sem þad ad Fyflugurnar flyia þa þær fiña Reikeñ og Dufurnar Odauneñ. Eins flyr ⁊ so su Himneska Dufañ heilagur Ande/fra þeirre Mañeskiu sem liggur i Syndum og Svyvirdingum Idrunar-laust/og latur ecke af/eñ vel sie þeim Mañe fra hvørium heilagur Ande i burt vykur/þvi fra hønum vykur ⁊ so Gud Fader ⁊ hañs Sonur Jesus Christus/ og verdur so sydañ Bustadur Diøfulsins.

Nu viliũ vier framveigis med fæstũ Ordũ fær ad heyra/ hvør ad sieu Laun ⁊ Betalingur sem øll Riettrwud Guds Børn hafa sier ad vænta af þessum Hreck-vysa Heime/einkanlega þo/ þeir sem Guds Ord kieña ⁊ Vitne bera af synũ Endurlausnara Jesu Christo/So sem ad eru aller trwlinder Doctores ⁊ Lærefedur i Kyrkium ⁊ Skoolum/Hier um talar so Herrañ Christur/ seigiande: ÞEIR munu forboda ydur/Item/ Sa Tyme mun koma/ ad hvør hañ Lyflætur ydur/ sa meinar sig ad giora Gude þægt Verk. Hier af meigum vier þad ráda og skilia/ ad þeir sem Herranum Christo epterfylgia ⁊ ganga epter hañs Bodordum/þad er þeir sem kieña riettañ ⁊ sañañ Sæluhialpar Lærdoom/ fyrer utann allar Villur og Mañasetninga/ þeir mune ecke ad eins Hatader/ Ofsokter / Hrakter og Hrædder verda af Andlegrar/ heldur og eirninn af Veralldlegrar Stiettar Møñum og Yferherrum/ þvi ad forboda edur Bañfæra nockurn/þad vidvykur og tilheyrer Andlegu Vallde/ Eñ ad Lyflata Meñ kiemur Veralldlegre Vallstiett vid. So hafa þa ecke ad eins Postularner/heldur ⁊ eirneñ Otelianlega marger adrer Guds Dyrkendur og Pyslarvottar bloted ad lyda Bañ ⁊ Bølvan af þvi Andlega/ eñ Plagur ⁊ Pintingar allt til Dauda/søkum Vidurkieñingar Guds Nafn af þvi Veralldleg[illegible]lldo-mi/so sem lioost er/bæde af Heilagre Ritningu ⁊ ødrum Sagnabookum/ ⁊ hier er oflángt upp ad telia/ Þar fyrer seiger so Postuliñ Paall/1. Cor: 4. Jeg held ad Gud hafe giørt oss Postulana ad hinum allra audvirdelegustu/ so sem Daudar nũ undergiefna/ þvi vier erum Vundurfurda orduer Heimenum ⁊ so Einglum og Møñum/ Vier erum Dárar fyrer Christs saker/ Bølvan Veralldar ⁊ Hreinsunar Offur allra Mañа. Eñ Ordsøkena hvar fyrer ad Guds Elskulegustu og wtvaleñ Børn/ hafa sier slyks ad vænta af þessum Hreckvysa og Vondskufulla Heime/ Hana leggur HERRANN CHRIstur sialfur til / og seiger ⁊ Og þta giora þeir ydur/ af þvi þeir þeckia hvørke Fødureñ nie mig. Hier kañ einhvør ad seigia: Hvørneñ á eg þta ad skilia? Þar Christur seiger þo i ødrum stad til Gydinga/ þa þeir efudust um hañs Persoonu ⁊ hvør hañ være/ Þier (seiger hañ:) þeked mig/⁊ þier vited hvadañ eg er/Joh. 7. Item seiger hañ hia sama Gudspiallamañe/15. Cap: Ef eg hefde ei giørt þau Verk á medal þeirra/sem eingeñ hefur añar giørt/ þa hefdu þeir aungva Synd / eñ nu hafa þeir sied þau/⁊ hata þo bæde mig ⁊ miñ Fødur. Eñ vier skulũ vita/ad Meining þessara Herrans Christi Orda er þesse/ ad þo so sie ad Gud Fader ⁊ hañs Sonur

Jesus Christus sie þm̄ nooglega openberadur/ ⁊ þeir vite i sijnū Hiarta/ ad Je-
su Lærdoomur er sa riette Saaluhialpar Lærdoomur / þa eru þeir þo samt so
hertekner ⁊ forblindader i Hug ⁊ Hiarta af fölskum Lærdoome/ ad þeir a moot-
te sine eigen̄ Samvitsku ofsækia Jesu Lærdoom / edur þa sem hn̄ kien̄a ⁊ fram-
bera/ so sem liooſt Dæme er a hinū H. Stephano / hvør þa ed predikade wt af
Herranum Christo fyrer Gydingum/ ⁊ þm̄ giekk til Hiarta hn̄s Ræda / þa aptur
byrgdu þeir sijn Eyru/gnystu Tönum yfer hønum ⁊ grytu hn̄/Giørn. B. 7.

Sama lesū vier ⁊ so um Postulan̄ Paal / þa hn̄ predikade fyrer þeim i Anti-
ochia/ ad þeir hafe staded i moote hn̄s Lærdoome / ⁊ þ sama ecke utan̄ af Hatre ⁊
vondsku/ Hvørs vegna þeir feingu ad heyra þessa Rædu af Munne Postulan̄a /
Þad byrjade/ad ydur skyllde Guds Ord fyrst seigiast / en̄ af þvi þier reked þ fra
ydur/ ⁊ halldeð ydur sialfa eilijfs Lijfs omaklega/ siaed / þa snwum vier oss til
heidenna Þiooda/Giørn. B. 13. Cap. Hier ad skylldu giæta aller Guds Orda For-
ackterar / edr þeir sem læta sier lyted edur eckert finast til þa þeir heyra Guds
Ord kient/skeyta þvi ecke meira en̄ an̄are Hegooma ⁊ einskis verdre Rædu edur
Barnahiale/þeir skylldu (seige eg) sia vel til/ ⁊ giæta ad sier / ad Guds Reide ⁊
Straff kome ecke yfer þa eins ⁊ Gydinga / sem moot viliuglega fordæktudu Je-
sum ⁊ hn̄s Ord/ Ja/þeir skylldu setia sier fyrer Siooner þa hrædelegu Hootun
sem þar stendur skrifud i Pistlenū til Heb. 6. Cap. og so hlioodar : Þad er o-
mögulegt ad þeir sem eitt sin̄ upplyster eru/ ⁊ smackad hafa himneska Gafu/ ⁊
Hluttakarar eru ordner H. Anda / ⁊ smackad hafa hid gooda Guds Ord og
Krapt epter komande Veralldar/ ef þeir affalla ⁊ krossfesta sialfū sier Son Guds
aptur/ ⁊ hn̄ fyrer Skimp hallda/ ad þeir skylldu kun̄a aptur endurnyader ad ver-
da til Yferbootar.

[illegible]llum vier skoda hvør vera ma huggun Guds Barna i giegn øllum þessū
margføllldum Ofsooknum Veralldaren̄ar/sem er þesse/Ad Jesus Christus/sem er
vort Høfud og Lijf/Col. 1. Phil. 1. Veit og sier fyrer Motgang sin̄a ast kiærra
Barna/ædur en̄ han̄ kiemur þeim ad Høndum/ og advarar þau og kien̄er ad vera
vidbwnum/so hn̄ kome þeim ecke Ovart ⁊ þau hneixlest eke þar af.

Hvad gladur vard Pharao Kongur þa Joseph varade han̄ vid þeim siø epter-
erkomande Hallæris Arum? Gen: 41. Eins gladdest og so merkelega Joram
Israels Kongur/ þegar Elisæus advarade hn̄ ⁊ sagde fyrer ad Benhadad Kon-
gurin̄ af Syria villde falla in̄ i hn̄s Land/hvar um lesa ma i an̄are Book Kon-
gan̄a 6. En̄ myklu gladare meigum vier vera sem eigum Jesum fyrer Raadgiaf-
fa / i hvørium folgner eru aller Fiarsiooder Gudlegrar Vitsku / Col: 2. Og
Onyt kan̄ ad giøra Raad Heidingian̄a/Psalm: 33. Og wr Freistingun̄e ad frelsa
þa Gudhræddu/ En̄ hina Ranglætu ad vardvelta til Kvalan̄a a Dag Doom-
sins/2. Pet: 2. Med þvi þa ed Christur veit af øllū vorū Mootgange ⁊ Man̄-
raunū/og ma hn̄s Vilja kiemur oss einges Kross ad Høndū/þa verum Okvydner/
þvi hn̄ er vor Gud/sem oss hialpar og sa Drottin̄ Drottin̄ sem fra Daudanum
frelsar/ Psalm: 68.

vier

Vier skulum ꝛ eirneñ i vorum Mootlætingum/ ꝛ allra helldst a vorre Burtferdar Stundu/hugga oss vid þañ gooda H. Anda/hvørn Christur lofar ad senda oß/ ꝛ vera visser þar uppa/ad hñ mune standa mz oß/ꝛ hia oss/i allskonar Þrautum ꝛ Þreyngingum/eins ꝛ hñ stood med Postulunum fordum/ ꝛ gaf þm hugþraust Siñe ꝛ glade Gied / þo þeir ætte aldrei so myked ad lyda fyrer Christi Nafns saker. Nu þm eilijfa gooda Gude sem er Huggun allra siña i allskonar Mootgange / hønum segium vier Lof Dyrd ꝛ Heidur nu hiedañ i fra og ad Eilijfu / Amen.

# A Hvijtasuñu Hatijd.

Evangelium/ Joh. 14. Cap.

Og JEsus sagde til siña Læresveina. Hvør hñ elskar mig sa mun vardveita mijn Ord/og Fader miñ mun elska hñ/ꝛ til hñs munum vid koma/ ꝛ hia hønū Vistarveru giøra. Eñ hvør hñ elskar mig eige/ sa vardveiter ecke mijn Ord. Og þad Orded sem þier heyrdud/ er ecke mitt / heldur Fødursins þess sem mig sende. Þetta talade eg fyrer ydur/a medañ eg var hia ydur. Eñ Huggareñ sem er hiñ heilage Ande / þañ er miñ Fader mun senda ydur i mijnu Nafne/hñ skalfur mun kieña ydur alla Hlute/ og miña ydur a allt þad sem eg sagda ydur. Miñ Frid læt eg hia ydur / Miñ Frid gief eg ydur/ eige so sem Heimureñ giefur / þa gief eg ydur. Ydart Hiarta hryggest ei nie skielfest. Þier heyrdud þ eg sagda ydur/eg fer burt og kiem aptur til ydar/ ef þier elskudud mig/þa gleddust þier vid þ/ ad eg sagda ydur/ ad eg fer til Fødursins/ þviad Fadereñ er mier meire. Og nu sagda eg ydur þad/ædur fyrre eñ þ skiedur/ so ad þier trydud þvi/þa er þad være skied. Hiedañ i fra mun eg ecke tala margt vid ydur. Þviad þessa Heims Høfdinge kiemur / ꝛ med mig hefur hñ eckert. Heldur so ad Heimureñ þecke þ eg elska Fødureñ/ ꝛ þ eg giøre so sem Fadereñ hefur mier boded.

 Exor-

# Exordium.



Jer lesum elskuleg Guds Børn / J fyrre Book Kongaña 18. Cap. Ad a Døgum Achabs/hafe Himineñ vered so hart tilluktur / ad þar hafe ecke einum Dropa Vatns rignt a Jørdena i hælft fioorda Aar/ allt þangad til ad sa mykle Spamadur Drottens Elias stie efst uppa Fialled Carmel/ & fieck þ med siñe Bæn/ad Gud gaf eitt nadarsamlegt Regn/ so adur eñ þ Meñ varde/vard Himineñ dimur af Skyum & Vedre/& þar kom eitt ækaft Regn.

AE/ þad mætte vel seigiast ad Himineñ hefde vered apturluktur regna Mañanña Synda/ a þeim fyrstu Veralldareñar Tijmum & þar fram epter / ecke i þriu Aar eins & a Døgum Achabs/ heldur meir eñ i þriu Þusund Aar / so þar hafe ecke falled neitt heilsusamlegt Nadar Regn heilags Evangelij / allt þar til sa himneske Elias Drotteñ vor Jesus Christus stie efst uppa Carmel/ þ er/foor til Himens/hvar med hñ wtvegade oss eitt Nadarlegt Regn i Vthellingu þess gooda H. Anda/ sem kom yfer Postulana a þessare dyrdarlegu Hvijtasuñu Hatijd / so hñ hefur nu aptur endurnært & lijfgad sijna Arfleifd sem þornud var/ so sm̃ hiñ H. David talar i Psalm: 68. So er þa þesse veglege Hatijdisdagur sem vier i Dag hølldum/ Hatijd eins ypparlegs Skeinks / a hvørre vor himneske Emanuel & Brooder Jesus Christus (epter þ hñ upp foor til Himna & sette sig til hægre Handar Føđursins) wtvegade oss & gaf þañ dyrmætasta edla Skeink/sem er Anda Nadareñar/ Heb. 10. Anda Bænareñar/ Zach. 12. Anda Vijsdoomsins/ Esa. 11. Ja/ Anda Sañleiksins & Kraptarens / Joh. 14. & 2. Tim. 1. So vier meigum nu glader syngia med hinū H. David af Psalm: 115. & seigia: Drotteñ hñ miñest vor & blessar oss/ hñ blessar Hwsed Jsraels / hñ blessar Hwsed Arons/ hñ blessar þa sem ottast Drotteñ/ bæde smaa & stoora. Ja/þetta er hin allra dyrasta & dasamlegasta Hatijd / a hvørre heilagur Ande hefur giørt þau mestu & stærstu Furduverk / þvi i Dag hefur skied Dasemdarverk a Himnenum/ Dasemdarverk a Elldenum/ Dasemdarverk i Loptenu/ Dasemdarverk a Jørduñe. A Himnenum er stoor Dasemd skien/ þar H. Ande kom yfer Postulana i einum skyndelegum Þyt/so sem mykels tilkomande Vindar. A Elldenum eru & so stoor Vndur skien/ þar Tungur yfer Postulunum saust so sem være þær gloande/ hvad vissulega hefur mætt vera eirn yfernatturlegur Elldur/ lijka sm̃ þegar ad Ruñureñ logade fordum/ eñ brañ þo ecke/Exod. 3. A Jørduñe sm̃ nidur under oss er hafa ecke heldur litlar Dasemder & Furduverk skied / þar Postularner sem adur fyrre høfdu vered einfallder Fiskimeñ & lijtt talande Meñ urdu a einu Augnablike so Mælskurijker/ad þeir gætu talad Guds Stoormerke i allra handa Tungumælum/ so sem þessa Dags Pistell wtvijsar / þar fyrer er eingeñ Furda/ þo þeir H. Forfedur/ Spameñ & Kongar hafe haft eina hiartanlega & iñelega Eptirlaungan epter þessare dyrdarlegu Drottens Hatijd / & hafe hroopad

med

med Spamañenū Esaia/ af hūs Spaadooms Bookar 45. Cap. seigiande: Dreu⸗
pe þier Himnar hier ofan ad/ & Skyeñ rigne Rietvijseñe. Eñ vier viliū i Jesu
Nafne an leingre Jñgangs & Formaala koma til þessa H. Evangelij / sem til er
sett ad wtleggiast skule a þessare H. Anda Hatijd i Christneñe/ & oss tvær Grei⸗
ner fyrer Hendur taka wt af þvi ad yfervega ad þessu siñe. Fyrst viljum vier
skoda & yfervega i Anda/ hvørt ad sie Audkieñingarteikn & Merke allra þeirra
sem Jesum af Hiarta elska. Þar næst viljum vier athuga þau Laun & þa Vel⸗
giørninga H. Anda/ sē hñ audsyner øllū þm sem þesse Audkieñingar Teikn a
sier hafa.

Nú sa himneske Hvijtasuñu Herrañ Gud H. Ande / sem a þessare dyrdlegu
Hatijd sette sig yfer Postulana/ & leidde þa i allañ Sañleik / hñ virdest eñ nu a
þessare Stundu ad setia sig yfer sierhvørn af oss/ so vier mættum þetta yfervega
þre H. Guddoomsins Preñingu til Lofs & Dyrdar/ eñ oss til Sælargagns i Jesu
Nafne/ Amen.

# Fyrre Greineñ.

Nu viljum vier koma til Textans/ og skoda hvad sierlegt hañ hefur inne ad
hallda.

Fyrst syner þesse Gudspialls Texte oss lioos Merke a þeim sem bwa yfer H.
Anda. Eñ þad er Teikned/ Ad sa sem elskar Jesum/ i hønum byr heilagur An⸗
de. Eñ vilier þu vita/ hvørt þu elskar Jesum af Hiarta edur ecke/ þa hefur þu
þar eckert vissara Teikn til/ eñ ad ransaka hvørneñ Hiartalag þu hefur til Guds
Ords. Hafer þu Guds Ord kiært/ þa þarftu ecke ad efa þ ad þu elskar vyst Je⸗
sum/ Eñ sie so þu skeiter ecke um Guds Ord/ þa skeiter þu ecke heldur um Jesū/
Hater þu Guds Ord/ þa hatar þu & so Jesum/ Eñ hater þu Jesum/ þa kantu
ecke ad bwa yfer heiløgum Anda/ þvi hvør hñ elskar ecke Drotteñ vorn Jesum
Christum/ sa er Bølvan/ seiger Postuliñ Paull/ 1. Cor: 16. Þetta Teikn Jesu El⸗
sku & heilags Anda Jbwdar/ høfdu þeir goodu Læresveinar sē til Emaus geinn⸗
gu/ þvi þeir elskudu so þ Orded Jesu sem hñ predikade fyrer þeim a Veigenum/
ad þra Hiørtu bruñu i þm/ so sem þeir medkiendu sialfer/ Luc: 24. Þetta Teikn
har med sier Drottningeñ af Arabia/ 1. Sam: 10. Hvør ed reyste lаngañ Veg
til ad heyra Ord Guds af Muñe Salomonis. Þetta Teikn hafde & so lyka a sier
sa goode Kong David/ hvør ed liet sier kærara vera Ord Drottins/ heldur enn
mørg þusund Stycke Gulls & Sylfurs/ Psalm: 119. Eñ Gud nade hvørneñ þad
geingur til fyrer oss aumum & syndugum Møñum/ þviad Hiørtu vor hyrna sial⸗
dañ under Guds Orda Heyrn & predikun/ auk heldr ad þau munde breña af El⸗
sku & Føgnude þra Hluta sem vier heyrum kient og predikad um/ eins og Lære⸗
sveinaña Hiørtu bruñu. Vier høfū Ord Drottens þ Tyrunū & viliū valla vyki⸗
oss þverfootar til ad heyra þ/ auk heldur ad vier muniū mz Austurvegs Drott⸗
ninguñe epter þvi sækia lаnga Vega. Vier selium kañ skie Guds Orda Heyrn

opt ⁊ tijdum þyrer þim̄ ælna virde edur sulltar Abata/ auk heldur vier minnum virda Ordsins Heyrn/meir eñ mørg þusund Stycke Gulls ⁊ Sylburs eins ⁊ David. Nu þa þetta sie so a sig komed þyrer allmørgum/ þa samt sem ædur er vonande og trwanlegt/ad i Guds Søþnude nune eñ nu þiñast þau Hiørtu sem elska aþ Hiarta þad blessada Ord Drottens/⁊ bera so a sier þad Teikn/ad þau hafe Jesum siñ kiærañ/og bwe yþer heiløgum Anda. Þesser aller haþa wtvaled sier med Mariu þad besta Hlutskipted/hvørs vegna þeir verda hier æminter/ ad læra sier ætyd þara meir og meir þram i Elsku Guds Orda/ i Bænrækneñe/ Jdraneñe/Hlijdneñe vid Gud og Meñ/ ⁊ i Þolenmædeñe ⁊ ødrum Avøxtum Guds Orda Elsku og riettrar Gudrækne/ so sem Postuliñ Petur ãmiñer i ødru Sendebreþe 3. Cap: seigiande: Vaxed i Nadeñe og Þeckingu vors Drottens og Lausnara Jesu Christi/ Og i Openberingar Book: 22. Cap: stendur/Ad hvør sem Riettlatur er/hañ skule riettlætast eñ nu þramar. Þad er ad skilia/ad sa sem nockud gott hefur med sier uppbyriad þyrer heilags Anda Verkan/hañ stunde þar til ad ꝥ aukest ætyd / eñ mynke alldrei. Hiner sem ecke elska Ord Drottens/þeir haþa ecke heilagañ Anda med sier/Eñ þeir sem hañ ecke haþa/þeir heyra ecke Jesu til/Rom: 8. Þar þyrer haþe nockr hingad til vered kalldur og athugalaus under Heyrn og Predikun Guds Orda/hañ siae ad sier i Tyma i Jesu Naþne/þvi a.hægt er Gude eñ nu i Dag ad giøra þañ ad Guds Barne sem hingad til heþur vered Dieþulsins Barn. Gixtum ad hvad Ande Guds seiger/ Ad hvøren þañ Tyma sem sa Riettlæte lætr aþ Riettlætur ad vera/þa skule hañs þyrra Riettlætis ecke minst verda. Og þar þvert a moote/ Hvørn þañ Tyma sem sa Ranglæte snyst þra Ranglætenu/þa skule ecke heldur verda minst hañs þyrra Ranglætis/Ezech: 18. Dæme hier uppa skiede i þeirre þyrstu Predikun sem halldeñ var a Hvijtasuñu Hatijd/þvi þa snerust til Jdrunar ⁊ riettrar Trwar nær þriar Þusunder Sala sem leinge høþdu Guds Anda ⁊ Orde a moote staded/ Act: 2. O/ Gud giæþe ad þeir sem eñ nu a vorum Døgum eru kallader til þess ad heyra Guds Ord/ og haþa þar med leinge hryggt og styggt heilagañ Anda/ þeir mættu komast i þra Hoop. Og þetta er nu ꝥ rietta audkieñingar Teikned a øllum þeim sem Jesum elska ⁊ bwa yþer heiløgum Anda/ad þeir heyra þeigensamlega Guds Ord/ elska þau heiløgu Sacramenta/⁊ haþa Hiartanlega Girnd og Epterlangan ad vera i Hwse Drottins eins ⁊ David/hvør ed seiger i Psalm: 27. Eins heþe eg beded aþ Drottne/þad sama villde eg giarnañ þiggia/ꝥ eg mætte bliþa i Hwse Drottens mijna Lijþdaga/ til ad skoda þa ægiætu Þioonustugiørd Drottins Guds/ og ad vitia hañs Musteris.

Nu vilium vier eñ þramar athuga ⁊ yþervega hvørneñ ꝥ vier eigum riettelega ad elska Jesum. Fyrst eigum vier hañ ad elska aþ øllu Hiarta / allre Sal ⁊ øllu Krøptum / ꝥ er ad skilia: Vier eigu ecke ad haþa neina Hræsnis Elsku til vors allra sætasta Endurlausnara / þyrer hvøre ad H. Ande tekur oss Vara / þyrer Mun Postulans Pals/Rom. 12. seigiande: Elskañ sie Flærdarlaus/ ⁊ eñ

apthur

aptur stendur þar/1. Joh. 3. Sona korn/elsked eige med Orde z Tungu/ helldur med Verke z Sañleika. Ecke a helldur Elsku vorre til Jesu ad vera so vared/ so sem Elsku Barnaña til Foreldraña eda Ecktamañsins til siñar Eigenkonu / edur eins goods Vinar til añars / helldur a þ ad vera þvilijk Elska/sem yfergeingur alla adra Elsku. J einu Orde ad seigia/vier eigum ad elska Jesum so ad vier høllldum hñ fyrer vort Sumum Bonum edur ædsta Fiesiood / z viliū helldur gang ga a mis alls þess sem oss er kiærast i þessare Verølldu/ sie þ Fader eda Mooder/ Syster eda Brooder/ Kona eda Børn / Lijf z Lucka / Æra z Gotz/ eda hvørriu helldst Nafne sm̄ þ heita kañ/helldur eñ þ vier høfum ecke hiartanlega kiæraū Fñañ edla Fiesiooden z Dyrgryppeñ vorn Drotteñ Jesum Christum/þvi so seiger hñ sialfur hia Luc. 14. C: Hvør hñ elskar meir Fødur z Moodur eñ mig / hñ er mijn ecke verdugur.

Þar næst eigum vier ad auglysa vora Elsku til Jesu / i þvi ad vier gleymū ecke hñs Pinum/þ er þm̄ Voludu z Þurftugu/helldur giørū þm̄ gott i hñs Nafne epter vorū Efnum/þt ef nockur seigest elska Gud/ eñ hatar siñ Broodur/ sa er Lijgare/ þvi hvør hñ elskar ecke siñ Broodur/ hvørn hñ sier/ hvørneñ gietur hñ Gud elskad/þañ hñ sier ecke ? seiger Joh. 1. Pistle 4. Cap.

J þridia lage eigum vier ad elska Jesum Endurlausnara vorn stadfastlega i Medlæte z Mootlæte/ i Lijfe z Dauda/ epter þvi sem sialfur Gud hefur þ til skickad/ þvi hvør hñ leggur sijna Hønd a Plogeñ/ z lijtur a Bak sier aptur/ sa er ei hæfelegur til Guds Rijkis / seiger Christur hia Luc. 9.

## Auñur Greineñ.

Hvad þat hefr þa til Launa z i adra Hønd sem Jesum elska/ hñs Ord stunda z yfer heilogum Anda bwa? Þad seiger oz Herrañ Christur hier i Gudspiallenu/ FADer Miñ (seiger hñ) Mun ELska ÞA. Þar kañ ecke gledelegra og huggunarsamlegra Ord ad seigiast a mille Himens z Jardar/eñ þ ad Gud Fader elske einn/þvlad þa sem hñ elskar/þa elskar hñ so Hiartanlega/so sem einn elskar Siaalldur sijns Auga/Zach: 2. Eda so sem sijna eigeñ Saal. Jerem: 2. Þad er ad søñu ecke lijtel Æra og Virding hallldeñ hier i Heime þa einn edur añar þattæke kar og umkomulijtell Vndersaate kiemst i Gunst og Vinættu vid siñ Kong edur myktls hattar Høfdingia/þo er þvi so vared/ ad slijkra Stoorherra Gunst er optsiñs ballvøllt og varer sialldañ leinge/so sem vier høfum Dæme til a Haman/ Hañ þeinkte ecke añad eñ hñ være hiñ allra Luckugiefnaste Madur i Verøllldeñe/ af þvi ad Kongurin hafde upphafed hñ og sett yfer alla sijna Fursta z Vndergiefna Þienara/ Eñ þad varade ecke leinge/þvi Kongurin liet skømmu þar epter heingia hñ a einum haum Triegalga/so sem þar um verdur lesed/Esthers Book kap 5.z 6. Cap: Elska z Giæskurijke Guds Fødurs til vor /umbreytest ecke/helldur/helldur hñ Trw vid oss æfenlega/so sem David vottar i Psalm: 146. Ja/ Hañ hefur soddañ hiartgroona Elsku og Kiærleika til vor/ad hñ lætur þad alla

 fram

fram vid oss koma sem eirnre skiærustu ꝛ skylausustu Elsku fylger/ so sīn er þta:
Fyrst openberar hñ oss allt sitt Leyndar Rad/ Þar næst giefur hñ oss allt ꝥ sem
hñ sier oss Gagnlegt ꝛ Naudsynlegt vera. Hañ umber ꝛ so i þridia mata vorn
Brest/ og skyler vorum Lytum betur eñ eirn Fader kañ ad skyla Lytum ꝛ Bre-
ste sijns elskulegs Barns. Og ad sydustu/ so ekkert mvante/ þa giefur hñ sig sialf-
añ i sijnum Guddoome ꝛ þremur Persoonum med allre siñe Giæsku og Giædum/
Mañskyñe til Eignar ꝛ Jbwdar Hiartans ꝛ Sælareñar/ hvad hñ ærysar med
þessum Ordum sem hier standa: **Og til hñs munum vier koma og Vist-
arveru hia hønum giøra.** Sæ þu/ so blessast sa Madur sem Ottast Drot-
tiñ/ seiger hiñ heilage David i Psalmenum 128. Jæ/ so blessast aller þeir sem el-
ska Ord Drottens og hillz so ad sier þañ gooda heilaga Anda.

Gud Drottiñ giørde Jsraels Folke ædur fordū margt ꝛ myked til gooda/ so
sem liooſt er af heilagre Ritningu/ Eñ sa var Velgiørninguriñ allra mestur sem
yfer took þa hñ Blessadur vtrotest ad bwa a medal þess. Eins lyka høfum vier
aumar Mañeskiur alldrei þeiged stærre Nad ꝛ Velgiørning af lifanda Gude/enn
þañ/ad hñ vill virda oss slyks Heidurs/ad vier skulum vera hñs Bustadur/hvørs
vegna ad Lykømum vorum veitest þvilijk Æra/ ad þeir heita ꝛ kallast nu hiedañ
af Mustere lifanda Guds/ 2. Cor: 6. Oh/ Vertu nu þar fyrer gladur
miñ Christne Brooder ꝛ Syster/ ꝛ hroosadu þier þar af/ad þu formætt nu alla
Hlute/ fyrst þu Herbergiar hia þier soddañ Edla Giest/sem sialfur formæ alla
Hlute. Sia/ hier kiemur til þyn Gud Fader ꝛ tekur þig sier ꝥ Barn/ hier kie-
mr til þyn Son: Guds ꝛ giefur þier til eignar syna allra helgustu Forþienustu/
hier kiemur til þyn Gud H. Ande/ ꝛ iñsiglar þessa Nad i þynu Hiarta/ so þu
mætt gladur seigia med Postulanum Pale/ Ef Gud er med oss/ hvør er þa a moo-
te oss? Hvør ed ecke fyrmde synum eigenlegum Syne/heldur gaf hñ wt fyrer oss
alla/hvørnen skylde hñ þa ecke giefa oss alla Hlute med hønum? Rom: 8.

Til Abrahams kom Drottiñ og tveir Eingar med hønum þa hañ sat i Dyr-
um siñar Tialldbwdar/ꝛ sem hñ sæ þa/rañ hañ a moote hm ꝛ fiell fram til Jar-
dar og sagde: Herra/ hafe eg fundeð Nad fyrer þynu Auglite/ þa gack ecke fr-
am hia þynum Þienara/Gen: 18. Hvad myklu framar ber oss skylda til/ ad
vier med stærstu Audmykt ꝛ Knefalle medtøkum þeñañ Edla Giestiñ/ og gled-
lum oss af Hiarta þar yfer/ad hñ vill ecke alleinasta ganga iñ til vor um stundar
saker/heldur ꝛ eirniñ giøra Langvist ꝛ Veru hia oss/ þviad hñs Footspor driw-
pa af Feite/Psalm: 65. Og hvar hñ Herbergiar/þar er Lyf ꝛ Blessan um All-
der ꝛ ad eilyfu/ Psalm: 133. Og þetta er nu sa añar Velgiørninguriñ edur Lau-
niñ sem þeir fæ er Jesum elska og hñs Ord vardvelta/ ad øll H. Guddoomsins
Preñing vill bwa og giøra Vistarveru hia heim i þeirra Hiarta.

Þridie Velgiørningureñ sem øllum søñum Jesu Elskendum veitest/ er Under-
vijsan ꝛ Uppfrædīng H. Anda/ hier um hlioodar so Texteñ: **Þetta talade
eg fyrer ydur a medañ eg var hia ydur.** Þad er ad skilia/A medañ eg um-

gleðst synelega i Hollvetu hier hia ydur / En hier epter mun eg ecke med soddan Hætte tala vid ydur. Heldur Huggaren/ sem er hin H. Ande / þan er min Fader mun senda ydur i mijnu Nafne (seiger Christur) Han sialfur mun kienna ydur alla Hlute/ ⁊ minna ydur a allt ꝥ sem eg sagda ydur.

Þad ber til opt ⁊ tijdum/ þo ad Guds Børn hafe einsett sier ad minnast ⁊ leggia uppa Hiartad þa edur þa Huggunar Grein/ sem i Guds Orde stendur ⁊ af Jesu signada Munne er wtgeingen / ad hafa hana sier til Trwarstyrkingar þegar Freistingar ⁊ imislegar Mootlætingar ad Høndum koma/ þa muna þau ecke neitt þar til/ ⁊ er eins ⁊ þau hefde aldrei heyrt ꝥ nie sied/ en oss til stærstu Huggunar i soddan Tilfellum/ lofar vor blessade Endurlausnare Jesus/ ad hn̄ vilie senda þann gooda H. Anda i Hiørtu allra þeirra sem hn̄ elska/ ⁊ hn̄ skule minna oss a øll þau Nadar Fyrerheyt sem hn̄ hefur giefed oss i synu H. Orde. Hvad ad er ein yfer máta stoor Huggun fyrer allar Angradar ⁊ Sorgbitnar Manneskiur / þvi hvad Gud hefur lofad ꝥ ender hn̄ visselega/ ⁊ hn̄s Ord kunna aldrei ad bregdast/ Luc. 21.

Þar næst ⁊ i annan máta verdur oss hier fyrer Siooner sett / hvørnenn hattad ⁊ vared er Efnum vorū i þessū Heime/ sem er ad vier lifū hier so sem adrar Fav‑rædar Skiepnur/ þvi vorer Vitsmuner eru Hálfverk / ⁊ vorar Spásagner eru Hálfverk/ so sem Postulenn seigir/ 1. Cor. 13. Ja/ vier neigum aller med Spá‑mannenum Jeremia medkienna ⁊ seigia: Ach Domine nescio loqvi / Oho Drotten eg duge ecke til ad tala edur predika/ þvi eg er of‑ungur/ Jerem. 1. Ja/ sannar‑lega má ꝥ um oss seigiast/ ad vier sieū Børn ⁊ of‑unger i Trwarefnum vorū/ þar fyrer er oss stoor Þørf ⁊ Naudsyn a einū goodū Skoolameystara ⁊ Uppfrædara/ sem oss kienne Guds Gøtu/ ⁊ hvad vier eigū ad flya ⁊ fordast / ꝥt af Natturunne til erū vier sialfer blinder/ so vier siaū ecke med vorū Augum/ ⁊ heyrū ecke med vo‑rum Eyrum/ ⁊ skilū ecke med vorū Hiørtum/ Esa. 6. Allann þennan margfalldann Brest ⁊ Breyskleika hefur vor allra sætaste Endurlausnare Jesus fyrer sied / og þvi hefur hn̄ sent oss af Himnum ofan i sijn Stad þann rietta Læremeystarann og Uppfrædarann/ sem ransakar alla Hlute/ einnenn Diwpleika Guddoomsins/ 1. Cor. 2. Þesse vor Skoolameystare kann ad giøra wr einū audvirdelegū Fiarhyrder/ eirn dyrdlegann Spámann eins ⁊ David/ 1. Sam. 16. Hann kann ad giøra wr einū fá‑tækum Fiskara/ goodann Predikara/ eins ⁊ Postulana/ Joh. 20. Og wr einū Of‑sookna ra Christnennar/ hátt upplystann Doctor Heidenna Þiooda / eins ⁊ Postulann Pál/ Act. 9. Þar fyrer/ hvør hn̄ er i þeirre H. Kiennemans Stiett / hn̄ bidie þennann Læremeystarann þann gooda H. Anda/ ad giefa sier Mælsku ⁊ Vitsku/ so hn̄ meige vera nytur ⁊ hentugur til ad framfylgia Embætte þess nya Testamentesins 2. Cor. 3. Og ad áminna fyrer heilsusamlegann Lærdoom/ ⁊ straffa þa sem a moote mæla/ Tit. 1. J sama máta/ þeir sem setter eru til ad stioorna ⁊ styra Undergiefnu Folke i þeirre Veralldlegu Yfervalldsstiettenne / bidie þennann Lære‑

 meysta‑

meystarañ um Vit & Mælþære/ so þeir meige skilia hvad Gott & Jllt er/ & giøra sijnū Vndersætū Riettinde & Doom/ epter þvi sem Salomon bydur/ 1. Kong. Book. 3. Þeir sem i Hwsstióórnar stiettenñe lifa/ bidie þeir & eirnenñ þeñañ Kennemeystarañ ad liena sier Mæl & Vit/ so þeir giete gooda Forstødu veitt sijnu Hwse/ 1. Tim. 3. Og uppaled sijn Børn i Aga & Vmvøndun til Drottens/ Eph. 6. Ja/ i einu Orde ad seigia/ Eirn & sierhvør/ hvørrar heldst Stiettar edur Embættis sem hñ er/ edur verda kañ/ sa bidie & akalle af Hiarta þeñañ Kennemeystarañ/ ad hñ vilie giefa sier bæde Mælsku & Vit/ Vit til þess ad gieta þeckt Gud riettelega/ en Muñeñ & Mælfære til ad prijsa hñ & lofa fyrer øll sijn Verk & Velgiørninga sem hñ veiter oss daglega Dags/ & þta eru þeir tveir Vænger/ m̄z hvørium vier kuñū upp ad fliwga til Himensins/ þvi þ er þ eilijfa Lijf/ Ad þeir þecke þig sañañ Gud & þañ þu sender Jesum Christum/ seiger hiñ H. Joh: 17.

Fioorda Gang edur Nytseme sem þeir faa & ødlast er Jesum elska/ hañs Ord stunda & yfer heiløgum Anda bwa/ er Fridur & Roosemе Samvitskuñar/ Hier um talar Herrañ Christur so i þessum vorum Texta. **Miñ Frid læt eg hia ydur/ Miñ Frid gief eg ydur/ eige so sem Heimuriñ giefur/ þa gief eg ydur.** J hvørium Ordum vor sætaste Endurlausnare Jesus Christus giører eirn miøg merkelegañ Greinarmun a millum Veralldareñar Fridar & þess Fridar sem hñ sialfur hefur wtvegad sijnum trwlyndum Børnum fyrer sijna Burtfør til Fødursins/ Og þetta er nu sa Fridurin̄/ um hvørn Postulinñ Pall talar i Pistlenum til Philippenses/ 4. Cap: Og kallar þ Frid Guds/ sem hærre sie øllū Mañlegum Skilninge/ Hvør sem nu þeñañ Frideñ hefur/ hñ þarf ecke hræddur ad vera fyrer Diøflenū/ þvi Christur hefur hñs Rijke nidurbroted/ 1. Joh: 3. Hvør þeññañ Frideñ hefur/ hñ þarf ecke ad Ottast fyrer Daudanum/ þvi Christur hefur hñs Magt i burttekid/ Heb: 2. Hvør þeñañ Frideñ hefur/ hñ þarf ecke ad kvijda fyrer Helvijte/ þvi Christur er ordeñ þvi ad eirnre Pestilentiu & Plagu/ Ose: 13. Nu sa Himneske Fridarherra vor Drotteñ Jesus Christus giefe oss þessa sijns Fridar eilijflega niootande ad verda/ og i þeim sama Fride burt hiedañ ad sofna vel og sætlega/ þa vor Stund er oss ad Høndum komeñ/ Hvad oss veite Gud Fader af siñe Naad/ fyrer Forþienustu og Medalgaungu sijns kiæra Sonar Jesu Christi/ Hvørium med Fødurnum og heiløgum Anda sie Lof & Dyrd/ Heidur og Vegsemd/ nu hiedañ i fra og ad eilijfu/ Amen.

## A Aññañ Dag Hvijtasuñu.

### Evangelium/ Joh. 3. Cap.



Esus sagde til Nicodemum/ So elskade Gud Heimiñ/ ad hañ gaf wt siñ Eingietiñ Son/ til þess/ ad aller þeir sem a hañ trwa/ fyrerfarest ecke/ heldur ad þeir hafe eilijft Lijf. Þvi eige sende Gud Son siñ i Heime

eñ/ad hañ fyrerdæmde Heimeñ/ helldur ad Heimuriñ frelsest fyrer hañ. Hvor hañ trwer fyrerdæmest eige. Eñ hvor hañ trwer eige/ hañ er nu þegar dæmdur/ þvi hañ trwer ecke a Nafn Eingietins Guds Sonar. Eñ þesse er Doomuriñ/ ad Liooſed kom i Heimiñ/ og Meñerner elskudu meir Myrkred eñ Liooſed / þviad þeirra Verk voru vond. Hvor sem jlla giører/ hañ hatar Liooſed/ hañ kiemur og eige til Liooſins/ad eige straffest hñs Verk. Eñ hvor sem Sañleikañ giører/hañ kiemur til Liooſins/ so hañs Giørder verde kuñar/þvi þær eru i Gude giørdar.

# Exordium.

I Añare Book Kongaña 3. Cap: Lesū vier/ Ad þegar þeir þrijr Kongar/sem var Konguriñ af Jsrael/ Konguriñ af Juda / og Konguriñ af Edom/høfdu teked sig samañ mz allre siñe Strijdsmagt til ad hefia uppa Moabitaña Kong/fyrer þa Søk/ ad hñ hafde gíefed sig fra Jsrael/og ecke viliad giallda hm̄ kañ Skatt sem hñ var hm̄ umskylldugur. Og sem þesser þrijr Kongar høfdu belegrad & hardlega umkringt adurnefdañ Moabitaña Kong/ þa stendur þar skrifad / ad hñ hafe orded so skielfdur & angradur i sijnu Hiarta/ad hñ hafe teked siñ Frumgieteñ Son sem Kongur atti ad verda i hñs stad/ & slatrad hønū uppa Murnum til Breñeoffurs i Augsyn Jsraels/meinande sig þar med ad gieta blijdkad sijna Afgude /so þeir frelsudu sig fra Fære þvi & Skada sem hñ var i komeñ: Eñ sem Jsraels Børn sau hvad Moabitaña Kongur giørde sijnū Syne/ þa gramdest hm̄ ꝥ so miøg/ad þeir viku i burt heim aptur i sitt Land/þvi þeir meintu ( epter þvi sem Lutherus ꝥ wtleggur ) ad Gud munde meiga straffa sig fyrer soddañ hrædelegt Ođædaverk. Nu vil eg spyria: Mun sa nockur vera/ sem ꝥta heyrer eda les/ad hñ skulle ecke forundra sig þar uppa/ad nockur Fader skyllde høndla so grim̄lega vid sitt eiged Barn/ad taka ꝥ sialfur af Lijfe/ þvi ꝥ synest ad vera moote allre Føдurlegre Elsku? Sañarlega/þar munu fæer eda aungver finnast / sem ecke læta sier soddañ Vidhøndlañ vid sijna Barnkind til Hiarta ganga. Eñ hvad myklu frekar ættū vier þa ad furda oss & forundra yfer þeirre stooru & oumrædelegu Elsku Guds Føдurs / þar hñ hlijfde ecke sijnū Eingietnū Elskulegū Hiartans Syne/ helldur gaf hñ wt fyrer oss/so sem til añars Offurs / þa vier vorū eñ nu hñs Ovi ner/ uppa ꝥ ad sa stoore Stadur sem er Heimur þesse/ hvør af Diøflenū var hardlega underokadur þiadur & þvingadur/skyllde frelsast & frijast fra hñs Vallde & Vondsku. Hvar wt af vier kuñū audvelldlega ad ræda & skilia / hvad myklu verdt ad Mañkyned sie & hafe vered i Auglite lifanda Guds/ þar hñ kostade

 de

ve so myked uppa þess Endurlausn/ hvad oss z eirneñ verdur þyrer Sjooner sett i þessu H. Evangelio/ Hvørt vier vilium ad þessu sinne stuttlega z einfalldlega yþervega i tveimur Smagreinū. Hin þyrre skal vera um þa stooru z oumrædelegu Elsku Guds til Mañkynsins. Auñur um þ / Hvørier helldst þeir sieu sem hluttakande verda Guds Elsku/ z hñs sæta Sonar Jesu Christi Forþienustu.

Sa himneske Faderen sem oss heþur so hiartanlega elskad/ad hñ gaþ ws siñ eingieteñ Son/ Mañkynenu til Endurlausnar / hñ virdest nu ad senda oss siñ gooda H. Anda/ so vier mættum þta yþervega / hñs dyrdarþulla Naþne til Æru og Vegsemdar/ eñ sierhvørium aþ oss til Sælargagns z Gooda/ Amen.

# Fyrre Greineñ.

So sem þ/ ad þad þyrsta Fyrerheit þess gamla Testamentesins/ um Kviñuñar Sæde/ sñ sundr ætte ad mola Høggormsins Høfud/ var hid hellsta z stærsta Fyrerheit/ sem hlijdde uppa Drottiñ vorn Jesum Christum. So er z so þta heilaga Evangelium þ allra dyrmætasta z ypparlegasta a medal þra Gudspialla/ sem i Christneñe kiend z predikud verda Aared um kring/ hvørs vegna ad Læreþaderen Lutherus kallar þ Kiarna edur Merg allrar heilagrar Ritningar/edr þa minne Bibliu. Eñ so ad þetta gullvæga Evangelium mætte verda oss þess minnisstædara z skilianlegra/ þa villum vær yþervega þssa þim epterþylgiande smæ Puncta. Fyrst/ hvør sa sie sem Heimeñ haþe elskad: Þar næst/ hvad høñu haþe komed til þssarar Elsku: J þridia mata/ hvad þ sie sem hñ elskar i Heimenū: J fioorda lage/ hvad myked z heitt hñ haþe elskad oss: Og i þimta og sijdasta mata/ til hvørs edur uppa hvad hañ haþe elskad.

So myked sem þvi þyrsta vidvijkur/ þa vottar Textiñ vor/ad sa sem hier elskar/þ sie sialþur eilijþur/sañur z Odaudlegur Gud/ Fader vors Herra Jesu Christi/eirn Drottiñ z Herra yþer Himne z Jørdu/yþer Lyþe z Dauda/ sa sem lagt heþur hañ þyrsta Stein edur Grundvøll til vorrar Sæluhialpar/ epter þvi sem hañ seiger sialþur hia Spæmañenum Hoseam/ 13. Þijn Hialp Jsrael er alleina hia mier. Jæ/ þetta er sa eilijþe sterke Gud/ liþande Gud/ epter hvørs Nad z Vinskap/ad allar Skiepnur a Jørduñe ættu ad stunda z kieppast/ eþ þar vit a heþdu. Vier siaum hvørneñ þ geingur til hier i þessum Heime/ ad nær eirn edur añar kiemst i Gunst z Vinattu hia einum ypparlegū Herra/ Hialpe oss Gud/ Hvad mykelega stærer su Mañeskia sig aþ þvi/ad hun er i Nad z Vinþeinge vid siñ Yþermañ? Eñ soddañ Stoorherra Gunst z Vinatta er skamviñ/z þorgeingur skindelega eins z Boola a Vatne/ þa so vill til.

Dæme hier uppa høþum vier a einum ypparlegum Strijdshøþdingia ad Naþne Bellisarius/ hvør ed bæde leinge z vel haþde þient Justiniano Keysara/ og þvilijka Gunst hia hønū ødlast/ ad Keysariñ liet sla hønum til Æru eina Gullmynt med Keysarans Mind a añare Sijduñe/eñ Bellisary a añare/ og med þessare Yþerskryþt/ Bellisarius Romanorum Decus, Þad er/Bellisarius er hin

stærsta Prijde þess Romversta Rijkis. Enn skömmu þar epter þiell so til ad same Strijdsherra Bellisarius var þorlogiñ vid Keysarañ/ so hñ þiell i hñs Ogunst/ og liet stijnga wr hønum bæde Augun/so hñ vard ad bidia um Braud z láta setia upp eina Tøblu hia Veigenum sem Almeñingur um reyste/uppa hvøria skrifud voru þesse Ord/ Viator da obulum Bellisario, qvem virtus evexit, Invidia excœcavit. Þad er/ þu sem hier fram hia reiser/ giefdu Bellisario eirn Skylding/ hvørn Mañdygdeñ upphafde eñ Aufundeñ Blindañ giørde. Vier siaum og so hvørneñ þvi er vared z hattad fyrer soddañ mykelshattar Herrum/ Kongum og Potentatum sem er ad þeir hlioota opt og tijdū med stærstu Hiartasorg og Angre ad sia þar uppa/ ad þeirra Drottningar/ Børn og Vildismeñ deya i burtu/ eñ gieta þo hvørke hialpad sier nie þeim/ z þegar Meñ meina ad þeir sieu i siñe allra stærstu Magt z Herlegheitum / þa er þeim skindelega ỳburt kipt/ so þeirra Raad z Regiering duger þa ecke meir / eñ vor Gud og Herra sem a Himnum byr/ hñ er soddañ eirn Gud sem kañ ad giøra allt hvad hñ vill/ sem David vottar Psalm. 115. Og i Psalmenū 33. seiger hñ: So sem þu talar Drotteñ/ so skiedur þ/z so sem þu befalar/so stendur þ. J einu Orde ad seigia/þa sem Gud elskar/ kañ eingeñ Hlutur ad skada / og þar þvert a moote/ hvørium helldst sem hñ er Reidur/þm kañ eingeñ Skiepna ad hlifa/ þvi hñ hefur ecke adeins Magt til ad straffa hier tijmanlega / helldur z so Sálu z Líkama i Helvijte nidur ad kasta eilijflega/ þar fyrer er eingeñ Hlutur hrædelegre/eingeñ skadlegre eñ sa/nær Gud er Mañeskiunñe reidur. Hier um talar so hiñ H. David/ Psalm. 139. Hvørt (seiger hñ) skal eg fara Drotteñ fyrer þijnū Anda? eda hvørt skal eg flyia fyrer þijnu Auglite? Fare eg upp i Himeneñ / þa ertu þar / bygge eg mier Rwm i Helvijte/ sia/þa ertu eirneñ þar/Take eg Vænge Morgunroðans/ z være vid þ yðsta Siafarhaf/ þa munde þo i þm Stad þijn Hønd leida mig: Ja/þetta sñ Gud hafa sier reidañ / þeir hafa allar Skiepnur sier a mootte/ so sñ er Einglana/ Diøflana/ Himen z Jørd z allt hvad þar iñe er/ so sem þar stendur i Spekeñar Bookar/5. Cap. Þar fyrer er eckert betra/eckert naudsijnlegra eda oss Møñunum þarflegra/ eñ ad vera i Vinattu vid lifanda Gud. Hier vid kañadest sa froome Assaph/z þess vegna sijngur hñ so/Psalm. 73. Þegar jeg hef þig Drotteñ/þa hirde eg hvørke um Himen nie Jørd / z þo Líf z Sál vanmegnest/ þa ertu þo Gud alla Tijma mitt Hiartans Traust z mitt Hlutskipte: Stunde nu þar fyrer hvør z eirn z kappkoste af øllū Sálar z Lijfs Kroptum/ad meiga vera i Vinattu vid lifanda Gud / z briota ecke af sier hñs Naad/ þvi hun er dyrmætare eñ Himen z Jørd/kostulegre eñ Gull z Edalsteinar z aller Jardneske Hluter.

Þad añad sem oss er hier athugande/ er / hvad Gude hafe komed til þessarar siñar Elsku/sem er eckert añad eñ hñs ovmrædelega Naad/Myskun z Giæska/ hier um talar Salomon so/Spek. B. 11. Þu elskar allt þ sem til er/ z ei hatar þu

 neitt

neitt af þvi sem þu hefur giørt / þvi þu hefur sañlega ꝥ ecke neitt giørt ꝥ þu hefur Hatur til. So er þa eingeñ añur Ordsøk til vorrar Sæluhialpar / utañ alleinasta Elska Guds Fødurs/ eñ ecke vor eigeñ Goodverk/ Forþienusta eda Verdugleike/ epter þvi sem vier syngiū i Psalmenum vorum: Eilijfañ Gud angrade þa/ Eymdeñ myn mørg var mæta/ Hañ mintest syna Myskun a / Mier villde hialpa læta. Item/ Mælte vid kæra Soneñ siñ/ Sie eg mal Nad ad giefa/ Far þu til nixte Sonureñ miñ / Mañkyne aumu ad hialpa.

Nu viliū vier eñ framvegis skoda ⁊ yfervega þad þridia / hvad ꝥ sie sem Gud hefur elskad/ Sem er Heimureñ/ Eñ hvad er Heimureñ? Þad eru aller meñ i Heimenum/ bæde Gydingar ⁊ Heydingiar/ Iller og Gooder/ jafnvel þeir allra verstu Skalkar/ hvørsu Oguðleger og Hreckvijser sem þeir hafa vered/ þvi Verølld þesse edur meste Partur Heimsins/ er ecke añad eñ Samsull ⁊ Samañsafn vondra Bova/ Skalka og Skielmera/ sem hvørcke ottast Gud nie Meñ/ heldur lasta Drottins Nafn/ foracta hañs Ord og likia sier ad allskonar Skømmum ⁊ Glæpū/ so sem Lærefadereñ Lutherus seiger i siñe Postillu/ Item seiger Johañes i syns fyrsta Pistels/ 5. Ad allur Heimureñ ligge i þvi vonda/ þad er/ ad hañ sie hladeñ allskonar Syndū og Løstum sem nefnast kuña/ og Postuliñ Paall i Pistlenum til Rom: 3. talar so og seiger: Allersamañ eru þeir synduger ⁊ hafa Skort a þeirre Hroosan sem þeir eiga fyrer Gude ad hafa/ aller eru þeir fravikner/ ⁊ aller Onyter ordner/ og eingeñ er sa sem gott giører/ ⁊ eige eirn/ Jaa/ Heimur þesse hafde ad søñu ꝥ vel forskulldad/ ad Gud hefde burtskufad hønum eilijflega fra synu Auglite/ og til Helvijtis nidursteipt/ eñ Drotteñ giørde ꝥ þo ecke/ heldur elskade hañ hañ/ so sem fra heilaga Evangelium vottar.

Yfer þessare Guds Furdanlegre ⁊ Oumrædelegre Elsku til Mañkynsins/ forundrar sig Moyses Guds Madur so seigiande/ Devt: Book: 33. Hvad kiemur til ad hañ (ꝥ er Drotteñ) elskar so Foolkid? So sem villde hañ so sagt hafa. Hvør er Ordsøk til þess/ ad þu Gud Drotteñ ⁊ Herra Himeñs og Jardar skyllder kuña ad elska Mañeskiuna/ sem þo er ecke añad eñ Dupt og Aska? Og stygger þig sijfelldlega med synū Syndum ⁊ Illgiørdū. Þad er Mælltæke vort/ Ad lijkur sæke lijkañ heim/ eda hvør elske sier lijke/ Nu þo so sie ad eirn eda añar elske þañ Hlut sem er dyrmætur ⁊ mykelsverdur/ edur þo vier elskum vora Foreldra/ Astvine ⁊ Naunga/ sem oss er bæde Glede/ Gagn ⁊ Adstod ad/ og oss hafa margt og nytsed til gooda giørt/ Hvør vill ꝥ til Ords taka/ eda sig þar uppa furda læta? Talar ecke sialfur Christur so hier um hia Matth: 5. Hvørt Verdkaup hafed þier fyrer þad/ þo þier elsked þa er ydur elska? Giøra ecke ꝥ sama Tollheimtumeñ? Eñ ad elska syna Ovine ⁊ giøra þeim til gooda/ ꝥ ma heita furdanlegur Hlutur. So er ꝥ þa eitt yfermata stoor ⁊ mykel Elska sem Gud hefur haft til Mañkynsins sē þo hafde hrædelega syndgad a moote hønum ⁊ styggt hañ med synum Misgiørdum/ so sem adur er sagt.

Hier af høfum vier oss þad til Lærdooms ad taka: Fyrst hvad stoor ⁊ mykell

